# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

½ mán.blað 1. sept '77

## Ný verkfallstilhögun nauðsynleg

Sjá 1. maí ávarpið baksíðu

8 síður

MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (M-L)

3. ÁRGANGUR 4. TBL. 19. APRÍL - 17. MAÍ

100 kr.

### Markvisst stefnt að auknu miðstjórnarvaldi í verkalýðshreyfingunni, en:

# ASÍ hefur ekki umboð til samninga!

Eins og fjallað var um í síðasta tbl. VERKALÝÐSBLAÐSINS, hefur það sífellt farið í vöxt á undanförnum árum að örfáir hálaunaðir embættismenn verkalýðshreyfingarinnar (ASÍ-forystan) semji fyrir hin einstöku verkalýðsfélög í kjarasamningum. Árangurinn af þessu samningabrölti ASÍ-forkólfanna hefur verið hrapalegur og kaupmáttur launa er lægri nú en hann var 1947. Allt fram að samningunum 1976 afhentu flest félög ASÍ-forystunni umboð sitt til samninga umyrðalaust, að mestu. Undantekning frá þessu voru til dæmist nokkur verkalýðsfélög á Norðurlandi. Eftir síðustu samninga keyrði þó um þverbak. Óánægja verkafólks með lúpulega frammistöðu ASÍ-páfanna var í hámarki og fjöldi verkafólks ákvað að næst skyldi ASÍ-forystan ekki fá umboð félaganna

frh.bls.6



KÚGUN VERKAKVENNA Í AUÐVALDSÞJÓÐFÉLAGI, LÍKT OG HÉR Á ÍSLANDI, ER Í RAUN TVÖFÖLD: VERKAKONUR ERU UNDIROKAÐAR OG ARÐRÆNDAR SEM HLUTI VERKALÝÐSSTÉTTARINNAR OG ÞÆR ERU EINNIG UNDIROKAÐAR SEM KYN. Í OPNU BLAÐSINS ER AÐ FINNA EFNI VARÐANDI BARÁTTU VERKAKVENNA. (MYND: VERKALÝÐSBLAÐIÐ)

## Sókn hafnar samfloti

Á fundi í starfsstúlknafélaginu Sókn 22. mars var samþykkt með lófataki að félagið semdi sjálft, en tæki ekki þátt í samfloti Alþýðusambandsins í yfirstandandi kjarasamningum.

Samþykkt þessarar tillögu er mikill sigur fyrir baráttusinna í verkalýðshreyfingunni. Að vísu veltur framkvæmd hennar öll á samninganefnd Sóknar og sé hún viljug til samvinnu við ASÍ-forystuna, getur hún grafið undan sjálfstæðri baráttu félaga í Sókn. Hitt er þó víst, að seta formanns Sóknar, Aðalheiðar Bjarnfreðsdóttur, í samninganefnd Alþýðusambandsins, er algerlega ólögleg eftir samþykkt þessarar tillögu. Er þar um að ræða sömu söguna og þá er varðar í raun öll störf þeirrar samninganefndar, þar sem hún hefur ekki umboð frá einu einasta verkalýðsfélagi til samninga!

Fundurinn í Sókn var hinn líflegasti. Þar var kosin 30 manna baknefnd fulltrúa helstu vinnustaða Sóknar og er henni ætlað að halda fundi með aðalsamninganefnd félagsins. Enn fremur

frh.bls.6

### Samfylking 1. maí

## Baráttusinnar undirbúa fund

Eins og frá var skýrt í seinasta tbl. VERKALÝÐSBLAÐSINS, hefur baráttusinnað fólk úr röðum verkalýðs hafið undirbúning 1. maí-aðgerða. Nafn þeirra er Samfylking 1. maí 1977. Samfylking 1. maí 1977 stefnir að því að halda innifund í Reykjavík síðdegis 1. maí og verður þar fjölbreytt dagskrá: ávarp, ræða, söngur, upplestur og fleira. Þegar þetta er skrifað er hvorki fullmótað efni dagskrárinnar né ákveðin staður og stund fyrir fundinn, en hvort tveggja verður auglýst síðustu dagana í apríl.

Kröfugrundvöllur Samfylkingar 1. maí 1977 er eftirfarandi, og beina aðstandendur hennar því til einstaklinga og samtaka, að tekin sé afstaða til kröfugrundvallarins.

A. Eining verkalýðs á grundvelli stéttabaráttu!

B. Gegn stéttasamvinnu - endurreisum verkalýðsfélögin sem baráttutæki!

1. 110 þús. kr. lágmarkslaun - fullar vísitölubætur strax!
2. Gegn leynimakki á samningafundum - opnar samningaviðræður!
3. Samningana til félaganna!
4. Gegn afskiptum ríkisvaldsins af kjarasamningum!
5. Full atvinna - fyrstu mannréttindi!

Frh. bls. 7

### Hjúkrunarfræðingar

## Árásir úr öllum áttum

Hjúkrunarfræðingar hafa frestað uppsögnum sínum. Sjálfsagt hafa margir baráttusinnar orðið fyrir vonbrigðum með þá ákvörðun. Þó er ljóst að ástæður eru fyrir hendi.

Eins og kom fram í síðasta VERKALÝÐSBLAÐI kröfðust hjúkrunarfræðingar leiðréttingar á hlutfallslegri lækkun launa þeirra miðað við aðra starfshópa, þ.e. að grunnkaup þeirra verði 13o-14o þúsund krónur. Jafnframt beindist óánægja þeirra gegn auknu vinnuálagi, enda hafa léleg launakjör ekki hvað síst valdið skorti á vinnuafli hjúkrunarfræðinga.

Vegið úr öllum áttum

Ákvörðun þeirra hjúkrunarfræðinga átti nokkurn aðdraganda að baki sér. Strax í upphafi náðist ekki full eining og samstaða með hjúkrunarfræðingum á Landsspítalanum. Þeir skoruðust undan uppsagnaraðgerðum. Stjórn Hjúkrunarfélagsins gekk á undan öðrum í að letja og draga kjarkinn úr félagsmönnum. Eina andsvar ríkis-

frh.bls.6

### Forstjóri SVR

## -níðist á baráttufúsum vagnstjóra

Svo sem lesendur VERKALÝÐSBLAÐSINS muna hafa strætisvagnastjórar SVR staðið í strangri baráttu í vetur vegna öryggisbúnaðar vagnanna, öryggis farþeganna og annarra vegfarenda. Forstjóri SVR lagðist gegn baráttu þeirra fyrir bættum búnaði vagnanna, og reynt var að sundra einingu bílstjóranna.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ spjallaði við Sigurð Gíslason sem var fremstur í flokki baráttumanna og spurði hann um frekari framvindu mála:

-Það hefur ekkert reynt á öryggisútbúnaðarkröfurnar vegna tíðarfars undanfarið. Ég hef hins vegar orðið fyrir því

frh.bls. 7

## Álverið í Straumsvík

Sjá baksíðu




## FJÖLDINN ER OKKAR STYRKUR

VERKALÝÐSBLAÐIÐ er ungt blað og áhrifalítið, en í örum vexti, bæði hvað varðar útbreiðslu, innihald, vinnslu og efnahagsgrundvöllurinn styrkist smám saman - hver nýr áskrifandi leggur fram s stein í húsið stóra sem við erum að hefja byggingu á. Blaðið þokast hægt og ákveðið í þá átt að verða raunverulegt baráttumálgagn verkafólks og framsækinna, eftir því sem Einingarsamtök kommúnista (m-l) festa meiri og betri rætur meðal verkafólks og áróður samtakanna nær fleiri og fleiri eyrum.

Brýnt verkefni kommúnista og alls framsækis fólks nú, er að efla VERKALÝÐSBLAÐIÐ á allan hátt og hefur miðstjórn EIK(m-l) því ákveðið að auka útgáfutíðni blaðsins frá og með 1. september 1977. Þá verður blaðið ½ mánaðar blað í stað mánaðarblaðs eins og nú er. Þessi breyting er brýn pólitísk nauðsyn, en krefst mikils og markviss starfs af öllum félögum og stuðningsfólki EIK (m-l), en einnig að áskrifendum og öðrum velunnurum blaðsins. Blaðið er engum háð nema þeim sem kaupa það og styrkja á annan hátt. Það þiggur engar mútugjafir í formi ríkisstyrks og auglýsinga og mun aldrei gera, en stendur og fellur með pólitíkinni sem það flytur. Styrkur þess liggur því markmiði að þjóna hinum vinnandi fjölda sem mest og best. Takist það ekki, á blaðið enga lífdaga fyrir sér og á þá ekki skilið. Lesendur eru því hvattir til að rétta samtökunum hjálparhönd: skráðu þig sem áskrifanda að því og kynntu blaðið fyrir vinnufélögum þínum, veittu því fjárhagsaðstoð eftir megni - margt smátt gerir eitt stórt!

En síðast en ekki síst: vertu opinn fyrir efni blaðsins og hikaðu ekki við að senda okkur gagnrýni á blaðið eða ábendingar Sendu okkur greinarstúfa eða fréttir úr stéttabaráttunni og við munum taka málið upp. Við ætlum ekki að búa til blaðið með fólki sem vinnur á bak við læstar dyr - við ætlum að búa til verkalýðsblað sem smám saman er unnið af verkafólki - fyrir verkafólk!

"Við erum að búa til blað sem í grundvallaratriðum er ólíkt öllum öðrum blöðum á Íslandi og raunar öllum borgaralegum fjölmiðlum yfirleitt.

"Pravda frá 1912 lagði grundvöllinn að bolsévíkabyltingunni 1917, segir Jósef Stalín í sögu Kommúnistaflokks Ráðstjórnarríkjanna.

Þessi orð segja talsvert um stjórnlistarlegt mikilvægi kommúnísks blaðs.

Þess vegna: VERTU MEÐ Í STARFINU VIÐ AÐ GERA VERKALÝÐSBLAÐIÐ AÐ BEITTU VOPNI Í STÉTTABARATTUNNI. LESTU BLAÐIÐ, NOTAÐU ÞAÐ OG SKRIFAÐU Í ÞAÐ!

## Höfnum Rauðri verkalýðseiningu

Svokölluð "Rauð verkalýðseining" gengst fyrir aðgerðum 1. maí, en mörg undanfarin ár hafa verið aðgerðir á vegum hennar

Framanaf beindust aðgerðir Rv gegn stéttasamvinnustefnu verkalýðsforystunnar, fyrst og fremst, en nú í ár kveður hins vegar við annan tón. Nú leggur Rv höfuðáherslu á að ná einingu með stéttasamvinnuforkólfunum í ASÍ! Í bréfi frá Rv til Fulltrúaráðs verkalýðsfélaganna í Reykjavík segir meðal annars, að Rv telji "nauðsyn á því að reyna allt til þess að sameina þá meginarma verkalýðshreyfingarinnar, sem gengið hafa undir hennar merkjum annars vegar og Fulltrúaráðsins hins vegar í eina allsherjarfylkingu 1. maí".

Þessi stefna Rv er hættuleg og einungis boðuð í þeim tilgangi einum að afvegaleiða verkafólk í baráttunni. Hún reynir að draga hulu yfir það höfuðskilyrði þess að verkafólk geti náð árangri í baráttu, að sigur vinnist yfir stéttasamvinnupáfunum í verkalýðshreyfingunni.

Það er fjarstæða sem Rv virðist halda fram, að unnt sé að vinna verkalýðsforystuna til baráttu fyrir bættum kjörum. Forystan er nú þegar orðin tengd atvinnurekendum svo sterkum böndum í gegnum nefndir og ráð ríkisins, stjórnir fyrirtækja og banka, að samkvæmt stöðu a.m.k. hluta verkalýðsforystunnar í þjóðfélaginu hlýtur að verða að telja þá með í hópi fjandmanna verkalýðs - auðstéttinni.

Starfshættir Rv eru því baráttu verkalýðs ekki til framdráttar, þvert á móti: Þeir eru til þess eins fallnir að hylja andstæðinginn þoku. Þetta þarf þó engum að koma á óvart sem á annað borð þekkir eitthvað til starfshátta trotskistanna í Fylkingunni, en einmitt Fylkingin er potturinn og pannan í Rv. Nú hefur þeim að auki tekist að seiða til sín nokkra óánægða "verkalýðsforingja", sem finnst ASÍ-forystan ef til vill vera komin full langt í opinberri þjónkun við atvinnurekendavaldið.

"Ríkisstjórnin víki"!

Rv hefur tekið kröfuna "ríkisstjórnin víki" upp á arma sína og er þar með farin að leika sama blekkingarleikinn og Alþýðubandalagið: "Með nýrri "vinstri"-stjórn kemur ný og betri tíð". En hver var svo reynslan af síðustu "vinstri"-stjórn? Jú, hún reyndist verkalýð ekki hótinu betri en forveri hennar, og átti til dæmis "heiðurinn" af því að afnema vísitölubætur á laun.

Þá viljum við benda andheimsvaldasinnum á, að Rv hefur engin kjörorð sem beinast gegn heimsvaldastefnunni í öllum hennar myndum. Rv minnist ekki á yfirgang risaveldanna tveggja, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna, og stríðshættuna sem af honum stafar. Orsök þessa er sú að Fylkingin ver heimsvaldastefnu annars risaveldisins, Sovétríkjanna, og nefnir hana meira að segja sósíalisma! Sá sem styður eina gerð heimsvaldastefnu en fordæmir aðra, er ekki andheimsvaldasinni, heldur málpípa heimsvaldastefnunnar.

Einingarsamtök kommúnista (m-l) vilja vara verkafólk og verkalýðssinna við aðgerðum "Rauðrar verkalýðseiningar" 1. maí, hvort sem Rv mun heppnast að bræða sig saman með ASÍ-forystunni í aðgerðum eða ekki.

# Stóriðja og orkumál

Nú heyrist lítið rætt um stóriðjumálin almennt við Eyjafjörð. Ýmist þegja stjórnvöld alveg um málið eða segja að önnur stóriðja sé ekki fyrirhugað en sú sem leyfi hefur fengist fyrir nú þegar (Grundartangaverksmiðjan og stækkun álversins í Straumi). Samt sem áður bendir margt til að annað sé uppi á teningnum. Þar má nefna virkjunarfyrirætlanir sem fara langt fram úr áætlaðri eftirspurn eftir orku næstu árin. Þegar hafa eftirtaldar virkjanir verið áætlaðar:

1. Sigölduvirkjun (tilbúin) - stærð 150 MW.
2. Hrauneyjarfossvirkjun - alþingi hefur veitt Landsvirkjun leyfi til 145 MW virkjunar.
3. Blönduvirkjun - tvívegis hefur verið lagt fram stjórnarfrumvarp um 135 MW virkjun.
4. Kröfluvirkjun - ef á annað borð einhver gufa næst til virkjunarinnar og ef að hún þá ekki lendir undir hraun, þá mun virkjunin framleiða 50 MW.
5. Bessastaðaárvirkjun - samkvæmt áætlun verður hún 30 MW.
6. Andakílsárvirkjun - samkvæmt frumvarpi sem lagt hefur verið fram verður hún 13 MW.

Samanlagt er því orka fyrirhugaðra orkuvera 543 MW og er líklegt að þær verði allar komnar í gagnið innan 10 ára. Samkvæmt útreikningum iðnþróunarnefndar er hins vegar áætlað að orkuþörfin á almennum markaði á næstu 10 árum aukist um sem næst 150 MW, en það er hvorki meira né minna en helmings aukning frá því sem nú er. Í þessum útreikningum er tekið tillit til áburðarverksmiðjunnar, heimilisnotkunar, húsahitunar, þjónustugreina og iðnaðar. Reiknað er með 25% aukningu í húshitun með rafmagni, sem er óeðlilega hátt. Til dæmis hefjast á þessu ári hitaveituframkvæmdir á Akureyri og þar dettur því væntanlega all-stór póstur út úr heildarorkunotkun til húsahitunar. Auk 150 MW sem áætluð eru til almennrar notkunar, er ætlað að þurfi um 80 MW til Grundartangaverksmiðjunnar og 20 MW til stækkunarinnar í Straumi. Samanlögð orkuþörf er því 250 MW á sama tíma sem virkjunaráætlanir hljóða upp á 543 MW. Afgangs eru því 293 MW!

### Orkan er ætluð auðhringum

Í framhaldi af ákvörðunum og áætlunum um virkjanir, leita stjórnvöld eftir hagstæðum kaupanda að raforkunni. Þegar hafa farið fram samningaviðræður við tvo auðhringi. Annar er norski auðhringurinn NORSK HYDRO og snerust þær viðræður um 200 þús. tonna álverksmiðju við Eyjafjörð. Hinn er svissneski auðhringurinn Alusuisse. Birst hafa áætlanir hans og nefnast þær integral.

Nú álíta flestir að fallið sé frá byggingu álversins við Eyjafjörð. Ekkert bendir þó til að svo sé:

1. Iðnþróunarnefnd talar um Eyjafjörð sem næsta stað fyrir stóriðju.

2. Félagslegar rannsóknir hafa farið fram. Norskur prófessor var á ferð við Eyjafjörð á vegum NORSK HYDRO. Hann komst að þeirri niðurstöðu að Eyjafjörður væri eini staðurinn á norður- og austurlandi sem tekið gæti slíka verksmiðju, með tilliti til þjónustu og fólksfjölda. Áætlað er að í verksmiðjunni muni starfa 500-600 manns. Einnig má nefna að þarna eru hafnarskilyrði hin ákjósanlegustu.

Þá hafa verið skipulagðar umhverfisrannsóknir á svæðinu og er þar í einu og öllu farið eftir fyrirmælum frá NORSK HYDRO. Rannsóknarstofnun landbúnaðarins hefur fengið þetta verkefni og mun starfið hefjast bráðlega.

3. Síðastliðið sumar var mælt fyrir raflínu frá Hrauneyjarfossi yfir hálendið norður í Eyjafjörð. Gert er ráð fyrir að hún geti borið alla þá orku sem virkjunin framleiði. "Byggðalínan" að sunnan gæti borið hluta rafmagns frá Blöndu og Kröflulínan á að bera allt rafmagn frá Kröflu. Þannig er fyrirsjáanlegt að á Eyjafjarðarsvæðinu verður innan tíðar 200-250 MW umframorka. Vart er hægt að hugsa sér annað en að sú orka fari til stóriðju.

### Makkað bak við tjöldin.

Það sem hefur einkennt umræður þegar stóriðja er annars vegar, er öll leyndin sem hvílir yfir þeim. Birtar eru orkuspár og áætlanir um virkjanir hér og hvar og sýnilegt er að allar þessar virkjanir koma til með að framleiða mun meiri orku en sjáanleg þörf er fyrir. Almenningur veit ekki hvað ætlunin er að gera við alla umframorkuna og embættismenn og þingmenn fullyrða að engar frekari stóriðjuáætlanir séu á döfinni. Tilurð umframorkunnar er hins vegar óhrekjanleg staðreynd. Skýringin á þessu er því sú, að hinir raunverulegu valdamenn, fulltrúar einokunarauðvaldsins á Íslandi, hafa á prjónunum stórfelldar stóriðjuáætlanir og orkusölu til erlendra auðfyrirtækja. Þeir standa í samningsmakki við útlendinga á bak við tjöldin. "Lýðræðið" á Íslandi er því í reynd það, að stofnanir, svo sem Seðlabankinn, iðnþróunarnefnd og iðnaðarráðuneytið, ráðskast með það hvort og hvar stóriðja skuli koma á landinu.

# „Samstaðan færði sigur"

## Kröfluviðtal

Svo sem kunnugt er, sauð upp úr óánægja starfsmanna við Kröflu virkjun á dögunum og þorri þeirra lagði niður vinnu í nokkra daga. Árangur aðgerðanna var verulegur hjá sumum, minni hjá öðrum.

Eins og kunnugt er, eru verktakar við Kröflu margir, en þeir stærstu eru HSH (Héðinn-Stálsmiðjan-Hamar) og Stjörnustál í Reykjavík og Slippstöðin á Akureyri. 23. mars lögðu allir 30 starfsmenn Slippstöðvarinnar niður vinnu til þess að leggja áherslu á kröfur sínar og litlu síðar þorri þeirra sem eftir voru. Þriðjudaginn 29. mars hófu starfsmenn Slippstöðvarinnar störf á ný eftir vel heppnaðar aðgerðir, en þá höfðu starfsmenn annarra verktaka hafið störf að nýju, að fáeinum undanskildum. Höfðu þeir þá ekki fengið neina teljandi leiðréttingu á sínum málum. Þrír trésmiðir frá þingeyskum verktaka sögðu upp starfi.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ náði tali af Jökli Guðmundssyni vélsmið í Slippstöðinni, er hann bjóst til ferðar austur að Kröflu með félögum sínum.

-Hvað er að segja um orsakir þessarar vinnudeilu?

-Menn eru orðnir langþreyttir á því ástandi sem ríkt hefur þarna í marga mánuði. Fyrsta baráttumálið varðar ýmiss konar aðbúnaðarmál, sem ekki virðist mögulegt að fá úr bætt með góðu. Heilbrigðisnefnd Skútustaðahrepps hafði komið og talið upp mörg atriði sem bæta þyrfti úr, en samt þurfti fyllstu hörku starfsmanna til að fá ýmislegt af því lagfært. Önnur atriði eru enn ólagfærð og er það óviðunandi.

Í janúar s.l. var svo talin yfirvofandi goshætta og mönnum vísað af svæðinu. Atburðinn bar upp á vinnuhelgi og þar sem hún er tiltekin í samningum um úthaldslengd og frídagafjölda milli úthalda, teljum við óviðunandi að aðilar sem jafnvel ekki eru samningsaðilar taki einhliða ákvörðun um að breyta vinnuhelgi í fríhelgi. Við gerðum því kröfu um að úthöld héldust óbreytt og að við fengjum greitt samkvæmt samningsgrein sem um það fjallar.

Síðan gerðist það í mars, að ófært var frá Kröflu til Akureyrar og tafðist brottför um heilan sólarhring. Við teljum ótvírætt samkvæmt samningi að greiðsla skuli koma að fullu fyrir þann biðtíma. Þessum atriðum var báðum neitað og þ.e. ekki náðist samkomulag á fundi með verktökum, sem haldinn var á Húsavík miðvikudaginn 23. mars, ákváðu Slippstöðvarmenn að óska eftir að vera fluttir til fyrri starfa við Slippstöðina á Akureyri og að þeir færu ekki til Kröflu fyrr en lausn fengist á þessum málum. Síðan ókum við heim og mættum svo til vinnu í Slippstöðinni mánudaginn 28., þrátt fyrir að við fengjum skilaboð um annað frá stöðvarstjórninni. Þá var málið látið kyrrt liggja.

-Hvernig var samstaðan?

-Starfsmenn Slippstöðvarinnar komu fram sem einn maður undir stjórn trúnaðarmannsins, Bergvins Svavarssonar. Þeir fara austur í dag eftir umtalsverðan árangur. Í dag verður svo fundur Slippstöðvarstjórnar, heilbrigðisyfirvalda staðarins og fulltrúa frá Kröflunefnd. Þar verður gengið frá því að heilbrigðisnefnd geti gert úttekt á ástandi og aðbúnað og gefið ákveðinn frest til umbóta. Þá fengum við sigur í biðtímamálinu og þrætan um heimför vegna hættuástands fer fyrir dóm þar sem við teljum allar líkur til að við göngum með sigur af hólmi.

-Eitthvað að lokum, Jökull?

-Þetta mál allt sýnir, að þar sem samhugur, samheldni og samtakamáttur er fyrir hendi, þar verður ekki á hinum vinnandi manni troðið.

## Slefburður

Stéttabaráttan, málgagn svokallaðs "Kommúnistaflokks Íslands" hefur gripið til slefburðar um EIK(m-l) og verður ekki annað sagt en sú baráttuaðferð hæfi bærilega Kristjáni Guðlaugssyni hugmyndafræðingi hópsins og stafkörlum hans.

Stéttabaráttan kveður félaga EIK(m-l) nú ganga á milli áskrifenda blaðsins með stolna spajldskrá yfir áskrifendur, og bjóða þeim áskrift að VERKALÝÐSBLAÐINU! Þessi málflutningur er í senn lágkúrulegur og skoplegur, enda líklega sprottinn af þörf fyrir að fela auðnuleysi Stéttabaráttunnar

VERKALÝÐSBLAÐIÐ og EIK(m-l) vara við þessum sérstæðu baráttuaðferðum og heita á þá sem enn endast til þess að kaupa og lesa Stéttabaráttuna að leiða sannleikann í ljós. Besta svarið sem þeir gætu gefið væri auðvitað það, að segja Stéttabaráttunni upp þegar í stað og skrá sig á áskrifendalista VERKALÝÐSBLAÐSINS. Það að stuðla að útkomu Stéttabaráttunnar er einugnis að skemmta skrattanum, en alls ekki framlag til framsækins starfs.




# Zaire:

Zaire, sem er sjálfstætt ríki í Mið-Afríku, á í dag í höggi við vopnaða innrás heimsvaldastefnunnar. Um miðjan mars réðust vopnaðar hersveitir, inn yfir landamærin frá Angóla. Þessar sveitir sem innihalda Katanga-aðskilnaðarsinna börðust fyrir sovéska heimsvaldastefnu í Angóla og eru studdar af henni. Sovéska heimsvaldastefnan notar í dag þá fótfestu sem hún hefur náð í Angóla sem stökkpall til árása á önnur Afríkuríki. Hersveitirnar sem ráðist hafa inn í Katanga eru búnar sovéskum hergögnum og samkvæmt heimildum undirstjórn kúbanskra foringja.

# Sovétríkin standa að baki innrásinni

Aðskilnaðarsinnar Katanga, eins og innrásarmenn kalla sig, komu fyrst fram á sjónarsviðið sem afl þegar Belgía réði landinu, (Zaire hét áður belgíska Kongó). Á tímum nýlendustefnunnar unnu vopnaðar sveitir "katanskra aðskilnaðarsinna" sem einkahersveitir mikilvægs koparnámufyrirtækis sem fyrst og fremst vann í Katanga. Þegar Zaire fékk sjálfstæði 1960 reyndu heimsvaldaríkin, með Bandaríkin í broddi fylkingar, að nota þessar vopnuðu sveitir til að kljúfa landið og ná yfirráðum yfir Katanga. Katanga-hérað er eitt auðugasta svæði Zaire af málmum og öðrum náttúruauðæfum. Eftir að uppreisn þeirra var barin niður flúðu þessir þjónar heimsvaldastefnunnar á náðir vina sinna portúgölsku nýlenduherranna í Angóla. Þar þjónuðu þeir í her þeirra við að berjast gegn sjálfstæðishreyfingunum.

Eftir að Angóla fékk sjálfstæði, og MPLA stutt sovétmönnum hóf borgarastyrjöldina, sáust Katanga-aðskilnaðarsinnar berjast undir stjórn MPLA við hlið kúbanskra hermanna.



Örvarnar sýna árásarleiðina frá Angóla

## Innrásarmennirnir fordæmdir af alþýðu Zaire

Sovéskar, kúbanskar og angólskar fréttastofur hafa kosið að þegja yfir því að þetta sé vopnuð innrás. Tass talar um "uppreisn" í Shaiba-héraði (áður Katanga) sem eigi víðtækan stuðning meðal alþýðunnar. En raunveruleikin er annar:

-Innrásarherinn telur c.a. 5000 menn. Hann sækir fram á þröngum vígstöðvum. Þó her Zaire telji aðeins 40.000 hermenn sem dreifðir eru um allt land, og aðeins 2000 hafi verið í Shaibahéraði þegar innrásin var gerð, hefur tekist að stöðva innrásarmennina með aðstoð alþýðunnar.

-22. mars mótmæltu 100.000 manns í Lummubashi, höfuðborg Shaiba-héraðs, innrás lepphermanna eins og mótmælendur kölluðu aðskilnaðarsinnana.

-Sem sönnunargögn fyrir því að þarna er á ferðinni erlend innrás hefur Mobuto, forseti Zaire, lagt fram skjöl sem tekin hafa verið af innrásarmönnum. Skjöl þessi eru á portúgölsku og spænsku. Spænska er töluð á Kúbu, portúgalska í Angóla, en franska í Zaire. Það er einkennileg "alþýðuuppreisn" sem gefur út fyrirskipanir á erlendri tungu.

-Eins og áður sagði eru kúbanskir hermenn í liði innrásarmanna. Samkvæmt frásögn blaðsins Special í Brüssel eru talsmenn innrásarmanna í dag að ráða málaliða í Brüssel og Marseilles. Málaliðarnir eru sendir til þjálfunarbúða í Angóla, nálægt landamærum Zaire.

Þessi dæmi sýna að þessi innrás er framandi alþýðu Zaire, og á ekkert skylt við þjóðfrelsisbaráttu.

## Sovétríkin standa að baki innrásinni

Mobuto, forseti Zaire segir, að Sovétríkin sem stóðu að vopnasendingu til MPLA í borgarastyrjöldinni í Angóla séu líka uppspretta þeirra vopna sem í dag eru notuð til að drepa Zairebúa.

Allt síðan sovéska sósíalheimsvaldastefnan sendi leppherменn sína og vopn til Angóla hefur innrás í Zaire verið undirbúin. Loftárásir voru gerðar á landamærabæi í Zaire í janúar s.l. af sovéskum MIG-þotum sem staðsettar eru í Angóla.

Markmið Sovétríkjanna með því að standa að baki innrásar í Zaire er tvíþætt: Annars vegar ágirnast sovétmenn náttúruauðæfi Zaire. Í Shaiba-héraði eru koparnámur sem framleiða 7% heimsframleiðslunnar af kopar. Hins vegar hyggjast sósíalheimsvaldasinnar ná fótfestu í Mið-Afríku til að geta betur náð til Austur-Afríkuríkja sem eiga land að Indlandshafi - mjög hernaðarlega mikilvægu svæði þar sem risaveldin keppa um yfirráð.

Viðbrögð Bandaríkjanna við íhlutun sovétmanna í málefni Afríku hafa verið þau að hóta hörðu ef Sovétríkin halda áfram á sömu braut.

Sovétríkin hafa nýlega sent tvo pólitíska fulltrúa sína, þá Podgorny og Castro í heimsókn til þriggja Austur-Afríkuríkja til að reyna að ná pólitískum áhrifum. Bandaríkin sendu Andrew Young, fulltrúa utanríkisráðuneytisins til þessara sömu ríkja, staðráðin í að vernda hagsmuni sína.

Afríka er vettvangur harðnandi samkeppni risaveldanna um heimsyfirráð. Krafa allra andheimsvaldasinna hlýtur að vera: Burt með risaveldin og öll önnur öfl heimsvalda- og nýlendustefnu úr Afríku!

# Félagar í OFML

# Stéttabaráttan í Færeyjum

Hér voru á ferð á dögunum félagar frá Oyggjaframa (marx-lenínista), bróðurfélagsskap EIK(m-l) í Færeyjum. VERKALÝÐSBLAÐIÐ innti þá eftir því, hver væru helstu baráttumál verkalýðs í Færeyjum um þessar mundir.

-Stéttabaráttan fer harðnandi í Færeyjum núna, til dæmis baráttan fyrir fiskvernd og fleira. Landhelgin við Færeyjar var færð út í 200 mílur 1. janúar 1977 og fólk spyr sig gjarnan í því sambandi: "Á að selja fiskinn sem óunnið hráefni eða eigum við að nýta hann sjálf?" Efnahagsbandalagið vill halda áfram sinni heimsvaldasinnuðu fiskveiðistefnu við Færeyjar og hefur eignast bandamenn í Færeyjum. Einokunarhringurinn "Fisksóla" á stór fiskiskip sem veiða mikið á fjarlægum miðum við Grænland, Nýfundnaland og Norðursjó. Skip þessi þurfa lítið vinnuafl og landa öllum fiskinum í Danmörku. Eigendur þessara skipa hafa engan áhuga á veiðum við strendur Færeyja og vilja því semja við Efnahagsbandalagið um veiðiréttindi í Norðursjónum gegn því að aðildarþjóðir Efnahagsbandalagsins fái að nota að vild heimamiðin, sem nú eru nýtt af smábátaeigendum í Færeyjum.

-Hver er afstaða færeyskra sjómanna til þessa?

-Verkamenn og sjómenn út um allar eyjar eru algerlega á móti þessum hugmyndum. Þeir hafa alltaf kært sig lítið um að vinna á skipum á fjarlægum miðum og vilja berjast fyrir því að byggja upp veiðar sem næst Færeyjum og fiskvinnslu í byggðum eyjanna til að skapa atvinnu, þar sem fólkið býr. Nú þegar er hafinn flótti frá landsbyggðinni vegna atvinnuleysis. Þetta hefur í för með sér hin margvíslegustu vandamál svo sem óhemju húsnæðisvandræði í Þórshöfn og uppsprengt íbúðaverð. Liggur við að leigukostnaður sé 3-4 sinnum meiri en hér á Íslandi. Ekki má gleyma því að NATO-starfsmenn í Færeyjum búa óleyfilega í Þórshöfn og bjóða háar upphæðir í leigu. Þannig verða þeir til þess að sprengja upp leiguverðið. Verkafólk hefur eðlilega ekki efni á að greiða svo geigvænlega leigu og þurfa því margir sem stunda vinnu í Þórshöfn að fara langan veg kvölds og morgna. Verkafólk og sjómenn vilja því enga samninga innan 200 mílna og berjast gegn fjandmönnum sínum, Efnahagsbandalaginu og færeyskri borgarastétt.

-Hvert er höfuðstarf OFML í stéttabaráttunni í Færeyjum?

OFML styður af heilum hug verkamenn og sjómenn í baráttu sinni. Við höfum sett fram baráttuaðferð innan stéttarfélaganna sem hefur hlotið góðar viðtökur hjá verkafólki og vinnur stöðugt meira fylgi. Við reynum sífellt að styrkja tengslin við verkafólk og vinnandi alþýðu, meðal annars með útgáfu á "ARBEIÐIÐ", en það er okkar aðalmálgagn. Markvisst skýrum við fyrir verkalýðsstéttinni nauðsyn þess að byggja upp raunverulegan verkalýðsflokk með marx-lenínska stefnu.

-Hvað um veru NATO-herliðsins í Færeyjum?

-Einn NATO-hershöfðingi í Færeyjum blaðraði frjálslega um tilgang herstöðvarinnar í blaðaviðtali í sumar og var leystur frá starfi vegna þess. Það sem generállinn lét út úr sér var mjög afhjúpandi fyrir NATO og hlutverk þess á eyjunum, meðal annars kom fram að NATO-herinn verður notaður gegn færeyingum sjálfum, ef lögreglan ræður t.d. ekki við mótmælaaðgerðir verkafólks. OFML berjast að sjálfsögðu gegn öllum íhlutunum beggja risaveldanna, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna.

# Að kaupa sér fylgi - býður nokkur betur ?

Sovésk alþýða býr hvorki við sósíalisma né völd verkalýðs og alþýðu. Afturhaldið á Vesturlöndum þarf þó ekki að búast við að talsmenn borgaralegs lýðræðis þar, sem svo mjög er hampað í vestrænum fjölmiðlum, muni setjast þar í valdastóla að afloknum hreingerningum alþýðunnar í Sovétríkjunum - þegar borgarastéttinni í landinu verður velt úr sessi. Nei, þar mun stéttarveldi verkalýðs rísa á ný og þráðurinn tekinn upp þar sem bolsévikar undir forystu Leníns og Stalíns skildu við á sínum tíma.

## um „Sovéska lífshætti og sósíalískt lýðræði"

Á fundinum í gær sagði Popof ma.: — Stéttabaráttunni er lokið í Sovétríkjunum. Októberbyltingin hafði það hlutverk að útrýma arðræningjum. Eftir sigur hennar reyndu borgaraleg öfl að endurheimta völd sín, en þau voru sigruð. Nú lifa stéttirnar saman í sátt og samlyndi, en þær hverfa þó ekki fyrr en kommúnisminn kemst á í framtíðinni.

Um lýðræðið í Sovét: — Sovéska þjóðin er hreykin af ríki sínu og hinu sósíalíska lýðræði sem er fordæmi fyrir önnur ríki. Á þingum sumra vestrænna lýðræðisríkja eiga td. verkamenn og bændur enga fulltrúa.

Um andófsmenn: — Þeir eru örfáir sem ekki eru fulltrúar neinna nema sjálfra sín. Þeir hafa brotið gegn stjórnarskránni og vilja breyta henni, en það kemst enginn upp með. Í öllum ríkjum eru til geðsjúklingar og glæpamenn, og öll ríki hafa sín tæki til að vernda stjórnarskrána og skipulag ríkisins. —ÞH

Hér á landi er starfandi félagsskapur einn sem ber nafnið "Menningartengsl Íslands og Ráðstjórnarríkjanna" - MÍR. Í eina tíð treysti hann raunverulega vináttu alþýðu Íslands og Ráðstjórnarríkjanna og kynnti íslensku verkafólki sígra sósíalismans í landinu. En nú er annað hljóð komið í strokkinn. MÍR hjálpar nú við að dreifa glansmyndum úr kúgunar- og arðránsríkinu og hampar hinni nýju auðstétt Sovétríkjanna. Og víst er að alþýða manna hérlendis kærir sig lítt um samtök þessi, eins og umsvif þeirra og hljómgrunnur sýnir ljóslega. En Kremlverjar sætta sig ekki við að vera svo neðarlega á "vinsældalistanum" hér. Ný sókn hefur hafist til að afla sovésku heimsvaldastefnunni vinsælda og hefur MÍR meðal annars komist yfir hið besta húsnæði við Laugarveg í Reykjavík, til að sinna þessu verkefni.

Berið saman ummæli þessa "prófessors í marxisma" og orð Marx sjálfs:

"Milli kapítalíska og kommúníska þjóðfélagsins er tímabil þar sem fram fer byltingarsinnuð breyting frá einni samfélagsgerðinni til hinnar. Til þess svarar pólitískt breytingartímabil þar sem ríkið getur ekki verið annað en alræði öreiganna". (Gagnrýni á Gotha-stefnuskrána).

Þá má taka orð sjálfs Leníns:

"Afnám stétta krefst langrar, harðvítugrar og erfiðrar stéttabaráttu sem hverfur ekki eftir afnám auðvaldsins, eftir eyðingu borgaralegs ríkisvalds og eftir stofnun alræðis öreiganna (eins og sumir fulltrúar krata halda), heldur breytir baráttan um form og verður á margan hátt harðari".

(Til ungverskra verkamanna)

Nýjasti hjártaknúsarinn frá Kreml er prófessor einn frá Moskvuborg og til að tryggja lágmarksaðsókn að málflutningi hans í MÍR-salnum, er úthlutað eigulegum munum til þeirra sem sýna falsáróðrinum mestan áhuga! Býður nokkur betur?

## BLÖÐ NORRÆNNA MARX-LENÍNISTA

## KYNNING




1. maí '76 kom út fyrsta tbl af Arbeiðið í Færeyjum. Arbeiðið er málgagn Oyggjaframa m-l, systursamtaka EIK(m-l) í Færeyjum.

Heimilisfang: Oyggjaframi m-l Gongin 28, 3800 Torshavn, Føroyar.




Kommúníski verkamannaflokkurinn í Danmörku gefur út vikublaðið ARBEJDERAVISEN. Blaðið hét áður Kommunist, en breytti um nafn við flokksstofnunina 1976.

Heimilisfang: Studiestræde 24 1455 Köbenhavn. Heilsáráskrift kostar Dkr 91. Peningarnir skulu sendast á gíró 6140807.




Systursamtök EIK(m-l) í Finnlandi, Marx-Lenínísku hóparnir (MLR), gefa út vikublaðið LOKAKUU.

Heimilisfang: Kalevi Mäkelä, Lokakuu-lethi, Pl 163, 001 01 Helsinki 10, SUOMI - FINLAND.




Sveriges Kommunistiska Parti bróðurflokkur EIK(m-l) í Svíþjóð, gefur út Gnistan. Blaðið kemur út vikulega, en áætlað er að gera Gnistan að dagblaði innan tíðar.

Áskrift er Skr. 30 fyrir 3 mánuði, Skr. 55 fyrir 6 mánuði og Skr. 110 fyrir eitt ár.

Heimilisfang: Gnistan, Box 5347, 102 46 Stockholm 5, Sverige.




AKP(m-l) í Noregi, bróðurflokkur EIK(m-l), gefur út dagblaðið KLASSEKAMPEN, en 1. apríl 1977 fór blaðið að koma daglega út, 56 blaðsíður í hverri viku! Þessi áfangi er mikill sigur fyrir heimshreyfingu marx-lenínista og þá sérstaklega fyrir verkafólk í Noregi.

Heimilisfang: Klassekampens distribution, Boks 2046, Grunnerlokka, Oslo 5, NORGE.

Áskrift er Nkr. 400 fyrir eitt ár, 200 fyrir ½ ár, 100 fyrir 3 mánuði og 34 fyrir hvern mánuð.



# Viðtal við formann EIK (m-l): "VERKALÝÐURINN SAMEINAST AÐEINS UM MARX-LENINISMANN"

-Mikið er nú rætt um nauðsyn samstöðu svonefndra "vinstri" afla, bæði í kjarasamningum og 1. maí. Hver er afstaða EIK (m-l) til þessa?

-Það er vissulega afar auðvelt að slá fram nauðsyn "samstöðu", en harma sundrungu svonefndra vinstri hópa, en málið er ekki svona einfalt í raun.

Í fyrsta lagi má ekki rugla saman samstöðu verkalýðsstéttarinnar og samstöðu alls kyns pólitískra samtaka. Það eru til borgaraleg öfl, líka í verkalýðshreyfingunni, sem vinnandi fólk á enga samleið með. Í öðru lagi er mikill munur á samstöðu pólitískra hreyfinga í ákveðnu baráttumáli og allsherjarafstöðu eða meginstefnu þeirra. Hvor tegund samstöðu sem á dagskrá er, táknar í öllum tilvikum að leggja verður pólitískt mat á viðkomandi samtök. Skilyrði fyrir samfylkingu með samtökum eru, að þau séu verkalýðs- og alþýðusinnuð, a.m.k. í ákveðnum málum. Að því er komist með mati á stefnu og starfi samtakanna. Stefnan í ákveðnu máli eða fleiri atriðum verður að vera verkalýð og alþýðu í hag. Starfið verður að vera í samræmi við þetta og byggt á trausti á fjöldanum.

Þá er komið að þessu hugtaki, "vinstri". Samtök eru ekki framsækin af því þau segjast vera "vinstri"-sinnuð, sósíalísk eða kommúnísk. Gylfi Þ. segist til dæmis vera "sósíalisti", Geir er "frjálslyndur" og brúnstakkar kölluðu sig "þjóðernissósíalista". Sumir þykjast vera svo byltingarsinnaðir að þeir afneita jafnvel verkalýðsfélögum sem baráttuvettvangi og enn aðrir eru á móti útfærslu fiskveiðilögsögunnar við Ísland í nafni "sósíalisma"! Þannig hylur allt talið um "vinstri" mun á réttu og röngu, mun á verkalýðssinnaðri og afturhaldssamri stefnu.

ASÍ-forystan heimtar nýja "vinstri"-stjórn

-Hvað er að segja um einstök samtök á "vinstri" kantinum?

-Undirtök falsmarxista í ísl. verkalýðshreyfingu eru rúmlega 35 ára gömul. Þau hafa í för með sér að alls kyns rugluspeki kemur fram þegar kommúnísk og verkalýðssinnuð baráttustefna er að festa rætur á ný. Dæmi um þetta eru Fylkingin og hópurinn í kring um Kristján Guðlaugsson sem kallar sig "Kommúnistaflokk Íslands" (!). Fylkingin biðlar til svikaforystunnar í Alþýðusambandinu, heimtar nýja "vinstri"-stjórn með Gylfa Þ. og Eðvarð innanborðs og er samtímis: andvíg baráttu fyrir 200 mílna landhelgi við Ísland, fylgjandi erlendri stóriðju á Íslandi og verjandi sovéska afturhaldið sem beindi þróuninnnni í Sovétríkjunum inn á braut auðvaldsskipulagsins, með þeirri afleiðingu að Sovétríkin í dag eru heimsvaldasinnað risaveldi í sókn um heim allan. En Fylkingin vill samt sameinast EIK(m-l) í aðgerðum 1. maí um "annað"!

Slík sameining myndi hins vegar blekkja fólk, réttlæta alþýðufjandsamlega stefnu þessa hóps og vera hemill á framsækna baráttu.

"Kommúnistaflokkurinn" vildi stofna flokk með EIK(m-l) án grundvallareiningar um starf og stefnu hans 1976. Eftir fordæmingu á kröfu okkar um slíka einingu og skipbrot flokksins er enn beðið um sameiningu. Hópurinn setur nú fram 160 þús. á mánuði sem höfuðkjarakröfu nú, launakröfu sem í raun sundrar verkafólki og samstöðu þess. Þá afneitar flokkurinn afgreiðslu- og verslunarfólki sem verkalýð!

Þessi "sameiningarstefna" samtakanna tveggja fellur auðvitað eins og hönd í hanska alls kyns gerfiróttæklinga í verkalýðshreyfingunni og svo Alþýðubandalagsforystunnar. Forysta þess sífrar um "sameiningu", en vermir stóla bankaráða, ríkisfyrirtækja, stjórnar ÍSAL og stundar stéttasamvinnu. "Verum sammála vinstri menn" segja AB-broddarnir, en berjast gegn mjólkurbúðakonum, hjúkrunarfræðingum og fleiri starfshópum sem eiga í baráttu, og táldraga verkafólk í samningum.

Hvernig sameining?

-Hvers konar sameiningu vilja þá EIK(m-l)?

-EIK(m-l) líta svo á að pólitísk heildareining verkalýðsins verði aðeins um marx-lenínismann - kenningar Maos Tsetungs. EIK (m-l) vita fullvel að hún nær ekki til alls fjölda verkafólks nú sem stendur. Samtökin vinna að því að vinna framsæknasta hluta fjöldans til stofnunar nýs verkalýðsflokks - kommúnistaflokksins. Samtímis og óaðskilið verður að sameina marga til baráttu fyrir afmörkuðum málum: kjaramálum, gegn erlendri stóriðju, gegn fiskveiðiheimildum til handa erlendum fiskveiðihringum, gegn hernum og NATO, gegn útþenslustefnu Sovétríkjanna, o.fl. Undir kjörorðum eins og "eining á grundvelli stéttabaráttu" og "barátta gegn risaveldunum og erlendri ásælni" verður að virkja einstaklinga og samtök í baráttu. Samtök eins og t.d. Samtök herstöðvaandstæðinga, Dagvistarsamtökin, Palestínunefndin, Azaníunefndin, Landhelgissamtökin, að ógleymdum auðvitað öllum stéttarfélögunum, eru vettvangur þessa starfs í framtíðinni.

Fólk lærir að berjast, afhjúpar falsmarxismann og eflir pólitíska vitund sína - óhjákvæmilega, en ekki með samstöðu allra sem setja "vinstri" stimpil á sjálfa sig.



# Saumakonur hjá Hagkaup: Allt gert til að ná hámarksafköstum

Hagkaup hefur auglýst sig upp sem verslun með ódýrar vörur. En hver er leyndardómurinn að baki hinu lága verði á þeim vörum sem eru á boðstólum í verslunum Hagkaups? Jú, Hagkaup hefur sínar eigin saumastofur, þar sem framleiddur er ýmiss konar fatnaður, en þar með er ekki sagan öll sögð. Á saumakonum Hagkaups hvílir geysimikið vinnuálag, og öllum brögðum beitt til að ná út hámarksafköstum.

Tíðindamaður VERKALÝÐSBLAÐSINS náði tali af einni af saumakonum Hagkaups, og fer frásögn hennar af ástandinu á vinnustaðnum hér á eftir. Vegna ótta við að verða fyrir óþægindum, fyrir að segja sannleikann um vinnustaðinn, verður nafn saumakonunnar ekki birt.

-Frá áramótum hefur vinnuálagið á saumastofunni aukist gífurlega. Áður fyrr vann hver kona út af fyrir sig, og saumaði þá mikinn hluta af hverri flík, en eftir áramót var komið á færibandavinnu. Hefur þetta leitt til þess að við erum mikið fljótari með hverja flík, því nú gerir hver kona tiltölulega lítinn hluta hennar. Tökum buxur sem dæmi. Þá saumar t.d. ein okkar hliðarsaum, önnur vasa, þriðja tvístungu, fjórða tölur o.s.frv. Við erum 3o sem vinnum þarna og þegar allt gengur vel getum við saumað allt að 15o buxur á dag. Buxurnar eru síðan seldar í verslunum Hagkaups á c.a. 4-5 þús. stk. Mánaðarlaun okkar eru samkvæmt iðjutaxta, eða c.a. 75 þús. á mánuði, og hefur það auðvitað ekkert hækkað þrátt fyrir aukin afköst. Getur nú hver sem vill gert sér í hugarlund hve mikið Hagkaup græðir á vinnu okkar.

Með þessu fyrirkomulagi er vinnan mikið einhæfari og leiðinlegri, og fáum við það á tilfinninguna að alltaf sé verið áð ýta á eftir okkur. Svo má auðvitað engin stoppa við vinnu.

Það eru notaðar ýmsar aðferðir til að reka á eftir okkur. T.d. er okkur bannað að fara frá vinnu til þess að hringja, og er verið að taka fyrir að fólk fái sér "pásu", en við vorum vanar að geta hvílt okkur í eldhúsinu. Nýlega fór ein ný stúlka fram í eldhús, í vinnutímanum, og var henni þá sagt að hún yrði rekin ef hún gerði það aftur.

Rétt fyrir jólin var 12 konum sagt upp vinnu, og í flestum tilfellum á mjög hæpnum forsendum. Við skildum þetta ekki alveg þá, en nú er skýringin komin. Með færibandavinnu er hægt að fá mikið meira út úr vinnu hverrar konu, og þarf þar af leiðandi færri konur til að afkasta jafn miklu og áður.

Nú stendur til að loka eldhúsinu til að stoppa "pásuferðirnar".

Vinnutími okkar er frá 8-4. Þar af fáum við 2o mín. í mat og einu sinni 15 mín. kaffitíma. Þessi tími á að nægja til að matast og hvíla okkur.

Þá má geta þess að Hagkaup rekur barnaheimili við saumastofuna. Þetta lítur mjög glæsilega út, og vissulega eru þetta viss þægindi fyrir konur sem eru með börn. Hvert dagheimilispláss kostar 14 þús. kr., og ef kona er t.d. með tvö börn eins og nokkur dæmi eru um, þá fara rúmlega 1/3 hlutar af laununum aftur til fyrirtækisins.

Að lokum vil ég lýsa yfir fullum stuðningi við kröfuna um kr. 11o.ooo lágmarkslaun og krefst þess jafn framt að hvergi verði hvikað frá henni.-

VERKALÝÐSBLAÐIÐ þakkar starfsstúlkunni fyrir spjallið og hvetur jafnframt fleiri til að senda blaðinu línu um ástandið á vinnustöðunum.



EIK(m-l) ályktuðu á stofnþingi sínu 1975, að hvetja til stofnunar baráttufylkingar ísl. verkakvenna um þau baráttumál sem efst væru á baugi á hverjum tíma. Baráttuna verður því að byggja fyrst og fremst á stöðu verkakvenna og annarra láglaunakvenna með samstöðu annars verkafólks sem á í stéttabaráttu. Til þess að slík baráttufylking sjái dagsins ljós og geti starfað á markvissan og árangursríkan hátt, verður að taka mið af því sem þegar hefur áunnist í kvennabaráttunni á undanförnum árum.

# KONAN Í

# Staða

Konan varavinnuafl!

Konur úr hópi vinnandi alþýðu þekkja flest allar þá erfiðleika sem fylgja því að fara út á vinnumarkaðinn. Í fyrsta lagi þá er í flestum tilfellum aðeins um að velja hin svokölluðu hefðbundnu kvennastörf s.s. þjónustustörf á spítölum, almenn skrifstöfustörf, fiskvinnsla saumaskapur, afgreiðslustörf o.s.frv. Og þessi störf eru lægst launuðu störfin í þjóðfélaginu og oft þau erfiðustu.

Kona sem búin er að koma upp börnunum sínum rekur sig á það, að starfsreynsla hennar sem húsmóður er einskis metin auk þess sem aldur hennar og þau ár sem hún eyddi á heimilinu standa í vegi fyrir atvinnumöguleikum hennar.

# Fiskverkunarstúlka í Bæjarútgerðinni „Óskertan fæðingarstyrk"

VERKALÝÐSBLAÐIÐ hafði tal af fiskverkunarstúlku í Bæjarútgerðinni um mál fiskverkunarkvenna.

Nafn hennar verður ekki birt að eigin ósk og fer samtalið hér á eftir.

-Hvernig hefur kauptryggingin reynst?

-Ég hef unnið allt að 12 ár við fiskvinnslu og þar til kauptryggingin kom á var alltaf dauður tími frá september til febrúar og þá var maður heima. En nú er öðru máli að gegna, það hefur varla fallið úr dagur hjá fastráðnum konum. Vinnan er betur skipulögð og frystihúsin verða nú að sjá um að vinna sé allt árið. Þetta hefur orðið til þess að þau hafa bætt við sig togurum, og þannig hefur kauptryggingin styrkt þjóðfélagið og gefið meira í þjóðarbúið.

Úti á landi gegnir sumstaðar öðru máli þar sem ekki berst reglulega afli á land, þar veit ég að konum er sagt upp einu sinni í viku. Þannig er hægt að fara í kringum fastráðninguna. Fastráðnar geta allar konur orðið í fiskvinnu sem unnið hafa samfleytt í 4 vikur hjá sama atvinnurekanda. Fyrst voru vöflur á þeim að fastráða konurnar en núna nýlega hefur orðið bót á því máli og virðist allavega hér vera í ágætu standi.

-Hvað viltu segja um kjörin og yfirstandandi samninga?

Nú ég tel að dagvinnukaupið eigi auðvitað að hækka mikið, það lifir enginn á því eins og það er í dag og ég vil skilyrðislaust afnema alla eftirvinnu. Ef atvinnurekendur vilja láta vinna fram yfir 8 tímana þá eiga þeir líka að borga fyrir það, og það teldist til næturvinnu. Þessi alltof langi vinnudagur hefur orðið til þess að verkafólk getur ekki sinnt félagsmálum, og er þannig haldið niðri félagslega.

Samningatímabilið er baráttunnar vegna alrangt. Ef samningar rynnu út um hávertíðina þá tækju samningarnir enga stund, atvinnurekendur væru fljótir að samþykkja kröfur verkalýðsins í stað ósómans sem þeir sendu frá sér hér um daginn og gekk allur í þá átt að skerða það sem verkafólk hefur nú þegar.

Í samningum Framsóknar er ákvæði um starfsaldurshækkun á kaupi, sem verður eftir 1. árs samfellt starf en síðan heldur ekki söguna meir. Nokkrar konur hér hafa unnið samfellt allt að 2o ár, en fá enga launahækkun.

-Hvað er svo að segja um fæðingarstyrk verkakvenna og dagvistunarmál?

-Fæðingarstyrkurinn er greiddur úr "atvinnuleysissjóði" og lýtur alveg sömu reglum. Er m.a. háð tekjum maka þannig að ef maki er með yfir u.þ.b. 14oo þúsund í laun yfir árið fær konan engan styrk.

Að sjálfsögðu á aðeins að miða við konuna sjálfa og engan annan þegar greiddur er fæðingarstyrkur og greiða hann að fullu eins og hjá öðrum stéttum.

Við höfum ekki kost á barnaheimilum, verkakonur eru ekki forgangshópur þar. Við hérna erum annað hvort of ungar eða of gamlar til að eiga ung börn. Skortur á barnaheimilum veldur því auðvitað að mæður með ung börn komast ekki út á vinnumarkaðinn, og það er vafalaust ástæðan fyrir því að þær eru ekki hér í vinnu.



# FRAMLEIDSLUNNI

# konunnar í dag

Ung kona með börn á framfæri sínu hefur betri möguleika vegna aldurs síns en hefur aftur á móti litla möguleika á barnapössun og atvinnurekendur eru hnýsnir á aðstæður, þeir vilja fá vissu fyrir því að manneskjan geti unnið eftirvinnu og sé ekki frá vinnu séu börnin veik, o.s. frv. Ófrísk kona hefur sama sem enga möguleika á að fá atvinnu, hún ber það beinlínis utan á sér að hún þurfi að fara í veikindafrí og atvinnurekendur sjá sér ekki hag í vinnuafli hennar þess vegna.

Sagan er ekki þar með sögð, því þótt svo að nokkur hluti kvenna sé úti á vinnumarkaðinum þá búa þær við alls ekkert atvinnuöryggi. Konur vinna mikið störf sem eru þess eðlis að þegar kreppir að í auðvaldsheiminum þá eru þau lögð niður og konurnar sendar heim og allir þekkja hvernig farið hefur verið með fiskvinnslukonur. Á þessu ári var lögð niður heil starfsstétt þ.e. mjólkurbúðakonur. Auk þess sem þátttaka konunnar á vinnumarkaðinum er algerlega háð því að hún hafi pössun fyrir börn sín, ef það bregst, verður konan greinilega að hætta starfi sínu. Atvinnumöguleikar kvenna eru sem sagt algerlega háðir gróða auðvaldsins. Þegar gróði auðherranna eykst sækjast þeir eftir vinnuafli kvenna. En þegar kreppir að í auðvaldsheiminum fá konur fyrstar allra uppsagnarbréf. Slíkt varavinnuafl er hagkvæmt fyrir auðvaldið. Auðvaldið leitast ekki við að útvega næga og trygga atvinnu heldur að auka hagræðingu og arðrán. Og það finna alþýðukonur best allra í þjóðfélaginu.

Kona – móðir

Tið að stýra konum inn og út af vinnumarkaðnum, er móðurhlutverkið notað. Þegar henta þykir að geyma konuna á heimilinu eru fjárveitingar til barnaheimila skornar niður og talað um samband barns og móður með tilfinningu, í áróðursmaskínum auðvaldsins. Barnaheimili eru þannig notuð sem stjórntæki á atvinnuþátttöku kvenna, í þjóðfélaginu.

Ástand dagvistunarmála

Í dag er ástandið þannig að einungis forgangshópar koma börnum sínum á dagvistunarheimili þ.e. einstæðir foreldrar og námsfólk. Leikskólapláss eru fleiri enda aðeins hálfan daginn, og lítil lausn fyrir vinnandi fólk. Kjör verkafólks eru þannig að báðir foreldrar eru knúnir til að vinna allan daginn auk eftirvinnu til að sjá fjölskyldunni farborða. Og hvar eru börnin á meðan? Hvernig eiga konur sem búa við slík kjör að vera "Hin góða móðir"? Foreldrar í verkalýðsstétt standa frammi fyrir þeirri staðreynd að þurfa bókstaflega að skilja börnsín eftir ein heima gæslulaus því ekki hafa allir ráð á einkapössun sérstaklega ekki barnmargt fólk. "Dagmömmum" hefur fjölgað mjög mikið. En það leysir ekki vandann heldur er aðeins bráðabirgðaúrræði. Sjálfsögð réttindi allra barna og foreldra eru næg og góð dagvistunarrými fyrir öll börn.

Konur þurfa að berjast fyrir þessum réttindum, öðru vísi nást þau ekki fram því auðvitað vill auðvaldið halda í sitt stjórntæki, en ef konur leggjast á eitt í þessu máli þá er sigurinn vís og stigið skref áfram í baráttunni gegn kvennakúguninni.

Dagvistarsamtökin.

Dagvistarsamtökin voru stofnuð í nóvember síðast liðinn og voru þar að verki fóstrur, foreldrar og fleiri aðilar sem vilja berjast fyrir úrbótum í dagvistunarmálum. Samtökin eru öllum opin og leggja á það áðaláherslu að treysta verði á samtakamátt fjöldans í komandi baráttu.

Þeir sem vilja styðja samtökin og gerast félagar sendi nafn sitt og heimilisfang til samtakanna. Utanáskriftin er:

Dagvistarsamtökin
c/o Laufey Tryggvadóttir
Hringbraut 47, Reykjavík

## Verkakona segir frá:

# Enginn trúnaðarmaður verkakvenna í frystihúsinu á Kirkjusandi

–Ég var búinn að vera atvinnulaus í hálfan mánuð þegar ég loks fékk vinnu í frystihúsinu. Þá hafði ég leitað til ráðningarskrifstofunnar, en þar var aldrei neitt að hafa, sagði verkakona ein sem nú starfar í frystihúsinu á Kirkjusandi, er hún kom að máli við VERKALÝÐSBLAÐIÐ fyrir skömmu. Fer hér á eftir frásögn hennar, en konan vill ekki láta nafns síns getið vegna ótta við að missa þá vinnuna.

–Það er almennt lítið um vinnu núna og auðvitað erfiðast fyrir konur að finna starf. Það sem mér blöskrar einna mest á mínum vinnustað, er að við starfsstúlkurnar höfum engan trúnaðarmann. Í hvert sinn sem við þurfum að leita réttar okkar gagnvart atvinnurekendum, getum við einungis reynt það með því að tala fyrst við verkstjórann, sem sendir okkur svo upp á skrifstofu.

Ég spyr: Hvar er verkalýðsfélagið?

Ég hefi frétt af starfsstúlku hér sem hafði hlotið mikla starfsreynslu, en var sett á 16 ára byrjendataxta er hún hóf störf hérna. Þegar hún um síðir hlaut leiðréttingu samkvæmt starfsaldri, var ekkert leiðrétt aftur í tímann og ég spyr því: Hvar er verkalýðsfélagið í slíkum tilfellum?

Eftir langan vinnudag er ég svo þreytt að ég hef varla löngun til að tala við nokkurn mann, hvað þá að fara í heimsóknir eða stunda félagslíf á kvöldin. Fæturnir og handleggirnir eru eins og þrútnir staurar og þá langar mann mest til að fara beint í rúmið með hitapoka undir öxlunum og reyna þannig að minnka mestu vöðvabólguna fyrir næsta vinnudag. Þessi þreyta er auðvitað ekki einsdæmi hjá mér.

Aldrei tími til að útrétta

Ef við frystihúsafólk þurfum að útrétta, verðum við að taka kauplaust frí – hver má við því?

Kaup okkar frystihúsakvenna er vægast sagt ekki til að lifa af, enda tekur maður þá eftirvinnu sem býðst. Venjulegur vinnudagur er frá 8.00 – 19.00. Varla er hægt að sleppa vinnu á helgidögum, því það er eftir- og næturvinnan sem hjálpar aðeins upp á sakirnar. Þótt freistandi væri að vera með fjölskyldunni, fór ég til vinnu bæði á skírdag og annan páskadag. Dagvinnukaupið á viku er rétt rúmlega 15 þús. og til viðmiðunar get ég nefnt sem dæmi, að ég bar heim tvo plastpoka af brýnustu nauðsynjum úr Hagkaup eitt föstudagskvöldið fyrir 17 þús. kr., án þess að væri t.d. nokkuð kjöt með í innkaupunum.

Þessi klukkutími í hádeginu er búinn áður en maður veit af. Við rétt náum að borða, teygja úr okkur dálítið og fá okkur kaffisopa. Menn geta ekki verið á þeytingi út um bæ á þessum stutta tíma.

Þá er það eitt sem mér fellur afar illa. Skoðunarkonan, það er sá starfsmaður sem kannar bein og orma í fiskinum, er fyrst til að breiða út sögur um fjölda beina og orma sem finnst og þetta skapar auðvitað kjaftagang og úlfúð manna á meðal. Skoðunarkonan er á hærra kaupi. Við reynum að gera okkar besta, við rýnum og þreifum á fiskinum, svo að mann dreymir fisk og aftur fisk á nóttunni!

VERKALÝÐSBLAÐIÐ þakkar frásögnina og hvetur starfsstúlkurnar til þess að kjósa sér trúnaðarmann á vinnustaðnum, svo sem lögboðið er. Sér er nú hver baráttuviljinn í forystu verkakvennafélagsins Framsóknar, að sinna ekki einu sinni þessu sjálfsagða réttindamáli félagsmanna sinna. En þetta kennir okkur að stéttarfélögin verða aldrei að raunverulegum baráttutækjum verkafólks nema að það taki sjálft upp baráttu fyrir því.

# Byggjum raunverulega baráttuhreyfingu kvenna!

Konan hefur um langan aldur verið kúguð. Ekki aðeins sem kvenvera heldur einnig (með fáum undantekningum) sem hluti þeirrar stéttar sem hún tilheyrir. Vinnandi alþýða landsins telur stærstan hluta þjóðarinnar, þar af konur liðlega helming ef heimavinnandi húsmæður eru meðtaldar.

Takmark framsækinna afla er að binda endi á þessa tvöföldu kúgun. En aðalvandamálið er að finna hina réttu leið fyrir baráttu kvenna svo árangur náist.

Í allri baráttu verður að leita að rótum meinsins. Höfuðþunganum verður að beina að grundvallaratriðum tvöfaldrar kúgunnar.

Flestar konur hafa a.m.k. þríþætta áþjánarstöðu í íslensku þjóðfélagi:

Í fyrsta lagi sem húsmæður og uppalendur barna – þ.e. aðilar sem hlúa að og endurnýja vinnuafl sem borgarnir kaupa.

Í öðru lagi sem varavinnuafl. Þ.e. það vinnuafl sem auðvaldið getur lokkað að atvinnutækjunum á uppgangstímum og sent heim þegar aftur kreppir að.

Í þriðja lagi sem láglaunahópur við tilgreind "kvenmannsstörf".

Augljóslega stafar ekkert af þessu af "ofríki karla" – heldur einkaeign atvinnurekenda á atvinnutækjunum, þjóðfélagsvöldum þeirra og gróðasókn. Auk þess mætti vera ljóst að ef auðvaldið – atvinnurekendur og ríkisstjórn þeirra – afnæmi þessa stöðu kvenna stæði það ekki deginum lengur.

Grundvöllur kúgunarinnar, margumrædd forsenda þjáningarinnar, er því auðvaldið. Þar er höfuðandstæðinginn að finna.

Það allra fyrsta sem ber að gera til að vinna bug á kúguninni er að mynda sjálfstæða kvennahreyfingu með baráttulínu sem miðast við hagsmuni verkakvenna og vinnandi alþýðu.

Nú spyrja eflaust margir hversvegna beri að miða baráttuna við hagsmuni verkakvenna og vinnandi alþýðu sérstaklega, en ekki við hagsmuni kvenna yfir höfuð? Á nokkuð að vera að blanda hagsmunum karla inni í þetta?

Nú er svo að vinnandi alþýða og sérstaklega verkalýðurinn (karlar og konur) eiga í stöðugri baráttu, pólitískri og efnalegri við sama vald sem treystir og lifir á tvöfaldri undirokun konunnar. Baráttulínan í kvennahreyfingunni getur ekki annað en tekið mið af stéttabaráttunni, þar sem andstæðingur hennar er öllu verkafólki sameiginlegur.

Verkefni þessarar kvennahreyfingar verður því að vera:

– að fylkja saman öllum konum sem unnt er að ná saman til baráttu fyrir brýnum hagsmunamálum og framsækinni fræðslu – gegn nefndri áþjánarstöðu.

– að fylkja til baráttu með vinnandi alþýðu í stéttabaráttunni.

Öll framsækin barátta fyrir afmörkuðum baráttumálum fer leið samfylkingarinnar. Hún verður að taka mið af vitundarstiginu almennt og þekkingu fjöldans, og því hvar óvininum er skeinuhættast við núverandi aðstæður – nefnilega að hróflað verði við áðurnefndri áþjánarstöðu.

Eins og allir vita er til kvennahreyfing á Íslandi. Rauðsokkahreyfingin. Hitt vita aðeins þeir sem reynt hafa að starf hennar er í algerum ólestri.i.

– skipulag nær ekkert, engin venjuleg stjórn, ekkert meirihlutavald varðandi daglegar ákvarðanir og enginn ber ábyrgð á neinu.

– markmiðið er óráðið, stefnuskrá engin utan ráðstefnusamþykktir, starfsaðferð óráðin og mýgrútur ólíkra strauma.

– samtökin eru bundin Reykjavík eftir margra ára starf.

– regluleg starfsemi er engin, hvorki inná við né útávið, að heitið getur.

Rauðsokkahreyfingin hefur ekki leyst það verkefni að smíða baráttusamfylkingu kvenna. Hennar er því þörf eftir sem áður. Og baráttusamfylkingin verður ekki til nema unnið verði gegn ofannefndum atriðum og tekin upp ný og andstæð vinnubrögð.

Byltingarsinnuð kvennahreyfing er ekki á dagskrá á Íslandi nú, heldur baráttusamfylking kvenna er skipuleggur sem flestar konur til baráttu gegn hverskonar kúgun og mismunum kvenna með auðvaldið að höfuðóvini.



# ASÍ

frh.af bls.1

til samninga. Þessar raddir náðu meira að segja inn í stjórnir ýmissa verkalýðsfélaga, einkum út um land. En nú fyrir yfirstandandi samninga, lagði ASÍ-forystan ekki í að láta bera upp umboð til handa sér í verkalýðsfélögunum. Hún vissi sem var, að andstaðan gegn samflotinu í samningaviðræðunum var mjög hörð og að tvísýnt yrði um úrslit, ef gengið yrði til kosninga um málið. Samkvæmt 5. grein vinnumálalöggjafarinnar er einstakt stéttarfélag lögformlegur samningsaðili um kaup og kjör meðlima sinna. Samkvæmt þessu hlýtur félagið að þurfa að gefa formlegt umboð sitt þeim aðila sem semur fyrir það, enda hefur sá háttur verið hafður á í undanförnum samningum.

Af framansögðu ætti að vera ljóst, að samninganefnd ASÍ hefur ekkert umboð til að semja fyrir hönd aðildarfélaganna í yfirstandandi samningaviðræðum. Slíkt er alger lögleysa og brýtur auk þess í bága við allar hefðir í verkalýðshreyfingunni.

ASÍ-forystan, atvinnurekendur og ríkisvaldið stefna markvisst að því að auka miðstjórnarvald Alþýðusambandsins í verkalýðshreyfingunni og drepa með því niður allt lýðræði og baráttu verkafólks. Í ljósi þessa verðum við að skoða samningaaðferðir ASÍ-páfanna. Þær þjóna í raun stéttaandstæðingnum: atvinnurekendum og ríkisvaldi þeirra.

# Sókn

frh.af bls.1

var ákveðið að baknefndin kysi svokallaða "tenginefnd", skipaða 5 mönnum, sem bæri ábyrgð á skipulögðum tengslum við vinnustaði á meðan á samningsgerðinni stendur. Skal það m.a. gert með fréttabréfi og skipulagningu vinnustaðafunda. Er þetta stórt skref í þá átt að auka lýðræði og virkni hins almenna félaga í Sókn. Það hefur því vakið undrun og reiði félaga, að forysta félagsins kom í veg fyrir kosningu "tenginefndarinnar", á fyrsta fundi baknefndar og þóttist ekki kannast við fundarsamþykktina þar að lútandi! Á fundinum hafði þó meira að segja formaður félagsins lýst fyllsta stuðningi við hugmyndina um "tenginefnd"!

Vinnubrögð sem þessi eru tíð í verkalýðshreyfingunni og ber það glöggt vitni um hversu djúpt hreyfingin er sokkin eftir nær 40 ára stéttasamvinnuforystu.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ lýsir fyllsta stuðningi við baráttu Sóknarkvenna og skorar á þær að standa vörð um lýðræðið í félaginu og halda ótrauðar áfram baráttu sinni gegn stéttasamvinnunni, hvar og hvenær sem hún birtist.

# Hjúkrunarfræðingar

frh.af bls.1

valdsins, þar til nokkrum dögum fyrir 1. apríl var að framlengja uppsagnarfrestinn um þrjá mánuði. Dagblöðin sýndu málinu sömuleiðis takmarkaðan áhuga. Öll voru þau þó samtaka um að taka afstöðu gegn uppsögnunum. "Málgagn sósíalisma, verkalýðshreyfingar og þjóðfrelsis", Þjóðviljinn, óskapaðist yfir því hve háar kaupkröfur hjúkrunarfræðinga væru, jafnframt því sem hann ól á getgátum um hvort þeir stæðu við uppsagnir sínar. "Alþýðu"blaðið kallaði uppsagnirnar ábyrgðarleysi, þar sem sóknarstúlkur hefðu mun lægra kaup. Sérhvert borgarablað predikaði "launajöfnuð". "Hálaunahópar" eins og hjúkrunarfræðingar hefðu engan rétt til að krefjast kauphækkunar. Verkalýðshreyfingin (þ.e. forystan) tók undir með málpípum borgaranna með því að hunsa málið og sýna hjúkrunarfræðingum engan stuðning.

## Samþykkt að fresta

Eftir að yfirvöld höfðu látið kröfum hjúkrunarfræðinga ósvarað í hálft ár og neitað öllum samningaviðræðum, sendi fjármálaráðuneytið bréf til hvers og eins, dagsett þ. 28. mars. Þar var gefið loðið loforð um að "kjör hjúkrunarfræðinga verði tekin til sérstakrar meðferðar" og þeir beðnir að vinna áfram. Næsta kvöld tóku hjúkrunarfræðingar þá ákvörðun að fresta aðgerðum.

Næsta haust mun aftur reyna á baráttuþrek hjúkrunarfræðinga. Á fundinum, þar sem frestunin var ákveðin, var jafnframt samþykkt að fá fleiri til liðs – þ.e. hjúkrunarfræðinga á Landsspítala, Kleppi og fleiri stöðum. Þeir hyggjast láta uppsagnirnar koma tafarlaust til framkvæmda, meti þeir samningana í sumar og haust sér í óhag.

## Lærdómar

Allar aðgerðir hjúkrunarfræðinga á hausti komanda hljóta að mótast að miklu leyti af því, hvernig þeir meta undangengna baráttu. Hér skal reynt að benda á nokkra mikilvægustu lærdóma hennar.

Í fyrsta lagi þarf enginn að búast við að fjöldauppsagnir þessar mæti öðru en hatrömmum fjandskap ríkisvalds, atvinnurekenda, verkalýðsforystunnar að meira eða minna leyti, og fjölmiðla. Við þessum árásum verður að bregðast þannig að samstaðan inn á við herðist – t.d. með tíðum fundum, dreifiritum o.þ.h. – og þannig að alþýða manna sé upplýst um hvað raunverulega búi að baki baráttunni. Til þessa þarf gott skipulag, því ekkert tækifæri má láta ónotað. Hjúkrunarfræðingar læra það væntanlega í haust, hversu vel er að marka loforð andstæðingsins. Á þessu stigi er aðeins hægt að benda á, að sjaldan hefur reynst vel að gefa honum sjálfdæmi í deilumálunum.

Í öðru lagi hafa hjúkrunarfræðingar átt við að etja tortryggni almennings. Á þessari tortryggni hefur verið alið af svokallaðri launajöfnunarstefnu sem sameiginleg er bæði ASÍ og vinnuveitendum. Það er sú stefna sem borgarablöðin fylgdu er þau hömruðu á hversu "góð" kjör hjúkrunarfræðinga væru, og fengu þá niðurstöðu að engir aðrir en láglaunamenn hefðu rétt til að krefjast kauphækkunar. En markmið launajöfnunarstefnunnar er ekki annað en að gera allt launavinnufólk á Íslandi að láglaunafólki. Gegn þessu dugir ekki annað en að upplýsa alþýðu manna vel um hver raunveruleg kjör hjúkrunarfræðinga eru, og skipulagður áróður af hálfu þeirra um fulla samstöðu þeirra með öðru vinnandi fólki.

Í þriðja lagi er reynsla hjúkrunarfræðinga af eigin samtökum mjög mikilvæg. Engin baráttureynsla var fyrir hendi og uppsagnarfólkið því nokkurs konar brautryðjendur. Full samstaða náðist ekki og eðlilega dró það úr kraftinum. En það sem mest skipti var markviss forysta. Forysta félagsins sveikst strax í upphafi undan merkjum og nýtt forystuafl er alls ómótað. Hjúkrunarfræðingar verða að gefa núverandi forystu sinni gott aðhald, annars er stór hætta á að öll kjarabarátta þeirra í sumar og haust renni út í sandinn.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ vonar að svo verði ekki, og hvetur hjúkrunarfræðinga til að halda ótrauðir fram til sigurs.

# Til áskrifenda

VERKALÝÐSBLAÐIÐ hvetur áskrifendur sína til að borga áskrift fljótt og skilvíslega. Það er mikill fjárhagslegur styrkur fyrir væntanlegt hálfsmánaðarblað að innheimta áskriftargjalda gangi vel.

GERUM HÁLFSMÁNAÐARBLAÐIÐ AÐ VERULEIKA Í HAUST!

## „Baráttufundur" Samtaka herstöðvaandstæðinga

# Risaveldin eru tvö



Baráttufundur í Háskólabíói miðvikudaginn 30. apríl taldi rúmlega 2000 manns. Með mannmargri Keflavíkurgöngu í sumar (10–15.000) sést að andstaðan við herstöðvarnar og NATO er öflug. Á afstaða NATO í landhelgismálinu ekki hvað síst þátt í því.

Alþýðubandalagið og önnur pólitísk samtök hafa svarað þessari vaxandi andstöðu með því að endurreisa Samtök herstöðvaandstæðinga (S.H.) í þriðja sinn.

Hver er afstaða EIK(m-l) til málsins?

## Tildrög Samtaka herstöðvaandstæðinga

EIK(m-l) tóku þátt í störfum miðnefndar og undirbúningi stofnunnar Samtaka herstöðvaandstæðinga, þ.á.m. Keflavíkurgöngunnar. Áttu samtökin þá oft samleið með meirihluta miðnefndarmanna gegn æfintýra- og klofningspólitík Fylkingarinnar sem m.a. beitti sér gegn því að Landhelgismálið yrði tengt Keflavíkurgöngunni og komu fram með eigin sundrungarkröfur í henni.

En er kom að tillögum um stefnugrundvöll tilvonandi S.H. voru uppi a.m.k. fjórar skoðanir sem lítt tókst að samræma.

Tillögur EIK(m-l) og "KFÍ/ML" beindust báðar gegn hernaðarbandalögum beggja risaveldanna, en tillögur Fylkingarinnar aðeins gegn NATO. Tillaga Alþýðubandalags ofl. var óljós málamiðlun.

EIK(m-l) lögðust gegn því að hafin væri starfshópaskipulagning samtakanna (S.H.) áður en þau voru formlega stofnuð með lögum og stefnuskrá.

Á stofnfundi S.H. í Sigtúni haustið 1976 skýrðust smám saman línur milli ólíkra skoðanahópa. Alþýðubandalagið ofl., Fylkingin og "KFÍ/ML" (eftir þóf) sameinuðust um stefnuskrá gegn NATO/hernum og öllum heimsvaldasinnuðum hernaðarbandalögum (?)– ekki Sovétríkjum og Varsjárbandalaginu. Tillögu EIK(m-l), sem hélt fast við baráttustefnu gegn risaveldunum, var vísað frá án umræðna eða atkvæðagreiðslu að tilhlutan AB. Var því ljóst að annars vegar væri stefnuskráin óbreytt frá því sem var áður og AB hafði hreinan meirihluta í miðnefnd.

## EIK(m-l) draga sig í hlé

EIK(m-l) álíta baráttu gegn NATO óaðskiljanlega frá baráttu gegn drottnunarstefnu og afturhaldsbrölti Sovétríkjanna. Sú afstaða er lítt útbreidd meðal virkra liðsmanna S.H., aðallega úr Alþýðubandalaginu. Því fór sem fór á stofnfundi S.H.

Í framhaldi af því töldu EIK(m-l) rétt að styðja S.H. og hvetja fólk að fylkja sér um þau (sbr. Verkalýðsblaðið 9 tbl. '76 ) – en samtímis talið rétt að takmarka starf félaga EIK(m-l) með S.H. við þátttöku í aðgerðum þeirra. Ástæðan er einfaldlega sú að EIK(m-l) geta ekki séð af nægu liði til að ná upp öflugri baráttu fyrir nýrri stefnuskrá gegn risaveldunum og samtímis náð upp öflugu starfi fyrir samtökin. En hvort tveggja verður að vera. Þetta merkir að EIK(m-l) munu smám saman koma til fullra starfa með S.H.

Gagnrýni "Stéttabaráttunnar" og falsmarxista Fylkingarinnar um að EIK(m-l) "hundsi" S.H. er þvættingur og ber ofannefnd grein úr Vbl. þess vitni.

## Gegn risaveldunum eða ekki?

Andri Ísaksson segir í Dagfara að menn eigi ekki að vera að karpa um hvers vegna menn séu á móti NATO, heldur "sameinast". Á hann m.a. við afstöðu EIK(m-l). En þetta er alvarlegur misskilningur hjá Andra. Í fyrsta lagi er ekki ágreiningur um hvers vegna menn eru á móti NATO, heldur hvort ekki sé lífsspursmál að efla árverkni og baráttu gegn Sovétríkjunum?

Í öðru lagi er ekki nóg að sameinast um baráttu gegn NATO eingöngu, ef Sovétríkin eru hættuleg og þau hagnast á einstefnunni.

Heldur Andri og skoðanabræður hans að alþýða manna líti á Sovétríkin sem framsækin, vinsamleg og friðsamleg?

Heldur Andri að alþýðan muni til lengdar styðja samtök sem "gleymi" t.d. innrásinni í Tékkóslóvakíu og árásaræfingum Sovét við Íslandsstrendur?

Enginn nema afturhaldsmaður getur varið ástandið innan Sovétríkjanna og framferði þeirra utanlands sem "sósíalisma" eða stefnu "verkalýðsríkis. Slíkt er hæðni um verkafólk og alþýðu. Eina leið S.H. til árangurs, eina rétta leiðin í Samfylkingarstefnunni, er að sameina baráttusinna um baráttu gegn báðum risaveldunum.

## Kátlegar umvandanir

Kjartan Ólafsson skrifar leiðara í Þjóðviljann í tilefni fundarins í Háskólabíoi og sendir "unga fólkinu" nokkur umvöndunarorð vegna "þrætubókarlistar". Hann er viss um að úr þessu rætist þegar "unga fólkið" eldist!

Hvað skyldu kratar hafa sagt við "unga fólkið" – kommúnistana – 1930, þegar KFÍ var að líta dagsins ljós – flokkurinn sem Kjartan þykist hafa tekið við arfleifðinni frá? Eða væri ekki reynandi fyrir hann að ræða við tékkneska, kambódska, indverska, pólska, angólska og sovéska alþýðu og segja henni að afstaðan til kúgunarvalds Kremlarburgeisanna sé "þrætubókarlist"!

"Unga fólkið" mun vissulega velta öllum hindrunum úr vegi fyrir baráttustefnu gegn auðvaldinu, allri heimsvaldastefnu og falsmarxismanum. Annað væri aprílgabb, Kjartan.

## Stríðshættan

Á fundinum í Háskólabíói kom fram að aldrei hefði verið friðvænlegra í heiminum eftir lok heimsstyrjaldanna. "Friðarstefnu stórveldanna" og blekkingunum frá Helsinki-ráðstefnunni um "frið og öryggi" var hampað sem gildri vöru framan í áheyrendur. En hafa menn eins og Brésneff, Carter og leiðtogar Alþýðubandalagsins útrýmt stríðshættunni með yfirlýsingum og pennastrikum í einhvern tíma? Nei, fátt er hættulegra en trúnaður á slíkt.

Risaveldin vígbúast af kappi, ota sínum tota undir yfirskini "stuðnings" við þriðja heiminn og víðar og halda heræfingar sem eru beinn undirbúningur undir árásarstyrjöld. Heimsvaldastefnan leiðir af sér styrjaldir, svo lengi sem hún lifir. Um þessar mundir er styrjaldarhættan afar mikil og verður fólki, sem man friðarhjal Hitlers og auðtrúnað t.d. Chamberlains hins enska eftir Münchenarfundinn 1938, ósjálfrátt á að bera saman þessa tíma og þá sem við lifum nú á.

Morgunblaðið notar ástandið og þjónkun Alþýðubandalagsins við Kremlverja til að vara við "kommúnismanum og Sovétríkjunum" í metralöngum greinum, en stillir um leið hinu risaveldinu, Bandaríkjunum, upp sem "friðarpostula"!

Staða sem þessi og blinda á stríðshættuna er herstöðvaandstæðingum ekki hagfelld.

# Fundur um stóriðjumál – Alþýðubandalagssýning

Samtök herstöðvaandstæðinga gengust fyrir "ráðstefnu um stóriðjumál" í Tjarnarbúð laugardaginn 12 mars. "Ráðstefnan" var reyndar meir í ætt við leiksýningu, skipulagða af Alþýðubandalaginu, sem notaði tækifærið til að sýna alger yfirráð sín yfir Samtökum herstöðvaandstæðinga. Langar framsöguræður, flestar fluttar af Alþýðubandalagsmönnum, fjandsamleg fundarstjórn, skipuð Alþýðubandalagsmönnum að mestu o.s.fr. Vinnubrögð af þessu tagi eru lítt til þess fallin að skipuleggja baráttu gegn erlendri stóriðju, enda er forysta Alþýðubandalasins alls ekki á móti stóriðju. Það sanna verk þeirra í "vinstri" stjórninni og núverandi pólitík flokksins. AB styður stóriðju "undir sérstökum kringumstæðum" (!) og með auknum afskiptum íslenska auðvaldsríkisins. Enn fremur styður AB rányrkju íslensks auðvalds á fiskimiðunum og kom það sjónarmið vel fram á ráðstefnunni þegar hinn nýi postuli AB, Ólafur R. Grímsson, boðaði af fjálgleik nauðsyn á nýju skuttogaraævintýri að 1-2 árum liðnum!

Að lokum tóku Alþýðubandalagsmenn það skýrt fram, að ný "vinstri" stjórn væri eina ráðið gegn stóriðjuþróun! Eða, eins og Kjartan Ólafsson sagði: "Íslenskt ríkisvald getur sett íslenskri borgarastétt stólinn fyrir dyrnar". Hér birtist kjarninn í endurskoðun Alþýðubandalagsins á marxismanum: ríkisvald borgarastéttarinnar er sett fram sem "óháð" afl, sem geti skipt um stéttareðli með ríkisstjórnum.

Trotskistar voru mættir með allmiklum látum. Helsti gagnrýnispunktur þeirra var sá, að erlend stóriðja væri alls ekki slæm, jafnvel "betri" en íslensk auðvaldsuppbygging. Ásgeir Daníelsson setti fram kjarnann í auðvaldsþjónkun trotta á skýran hátt hátt:"Hvernig haldið þið að hér væri umhorfs, hefði álverið ekki komið?" og svaraði sjálfur með litríkum kreppulýsingum.

Til lengdar mun vinnandi fjöldi ekki láta bjóða sér loddaraleik sem þennan. Baráttan gegn stóriðju mun rísa sem alþýðuhreyfing og hún mun beinast m.a. gegn AB-forystunni og trotskiistum.

# Hvað er stéttasamvinnustefna?

Verkalýðsfélögin voru upphaflega stofnuð af verkafólki sem fundið hafði út að styrka samstöðu þurfti til að standa uppí hárinu á atvinnurekendum. En þeir sækjast eftir hámarksgróða og vilja því greiða verkafólki sem minnstan hlut þeirra verðmæta sem það sjálft hefur skapað.

En hvers vegna eru verkalýðsfélögin þá svo léleg baráttusamtök sem raun ber vitni?

Það er vegna þess að ráðandi stefna hjá forystu verkalýðsins er stéttasamvinnustefnan en ekki stéttabarátta.

Stéttasamvinnustefnan felst í því m.a. að ráðamenn í stéttarfélögunum (þ.e. formenn og/eða oft öll stjórnin í félaginu), berjast ekki fyrir málstað hinna almennu félaga, heldur eru þeir ávallt fullir skilnings fyrir málstað atvinnurekenda og eru stéttasamvinnumenn ósparir á að sýna verkafólki fram á nauðsynina á sáttfýsi við atvinnurekendur.

Ásamt atvinnurekendum skýra stéttsvikararnir í verkalýðsforystunni út fyrir verkalýðnum að "greiðslugeta atvinnuveganna sé ansi slæm" o.s.frv.

Gerð heildarsamninga er annað vopn móti baráttu verkalýðsins. Þá eru völdin tekin frá stéttarfélögunum sjálfum og allt framkvæmdavald hjá A.S.Í.-forystunni. Skemmst er að minnast ræðu Björns Jónssonar á fundi baknefndar 13. apríl er hann sagðist líta svo á , að þar sem sérkröfur stéttarfélaganna brytu í bága við samþykktir A.S.Í.-þingsins fyrr í vetur, þá skildi stefnan sem mótuð var á A.S.Í.-þinginu ráða.

Í hvert sinn sem einstaklingar eða stéttarfélög hefja baráttu uppá eigin spýtur (Akranesverkfallið, Mjólkurbúðamálið), leggst A.S.Í. forystan alltaf á móti vilja fjöldans. Það má ekki berjast nema þegar leikritið "heildarsamningar" er fært upp á Hótel Loftleiðum og reyndar ekki þá heldur nema á yfirborðinu.

Á meðan samningar standa yfir kemur forystan yfirleitt fram opinberlega með mjög svo róttækt skvaldur. Þá er höfðað til samtakamáttarins, þrýstings og:"...að treysta raðirnar og búast til baráttu" eins og Björn Jónsson komst að orði á áðurnefndum fundi 13. apríl s.l., en annað var hljóðið í Birni s.l. sumar er mjólkurbúðakonur börðust harðri baráttu fyrir að halda vinnu sinni. Þá sýndi hann og A.S.Í.-forystan engan stuðning í verki, og taldi baráttuna tilgangslausa.

Þetta eru dæmi um birtingarmynd stéttarsamvinnunnar, nánar segir um hana í Baráttuleið Alþýðunnar bls. 127 og 128. Eftirtalin atriði má nefna:

**Flest stéttarfélögin eru undir forystu endurskoðunarsinna og endurbótasinna sem starfa með eigin hagsmuni og atvinnurekenda að leiðarljósi. Nokkur hluti forystunnar er ótvírætt orðinn hluti einokunarauðvaldsins, t.d. þeir hæst settu í ASÍ-forystunni. Þetta má marka meðal annars af:**

1. Þeir ráða gífurlegum sjóðum verkalýðshreyfingarinnar og stjórna t.d. Alþýðubankanum.
2. Þeir taka beinan þátt í stjórnun auðvaldskipulagsins, sem ráðherrar, þingmenn, fulltrúar í nefndum og ráðum o.s.frv.




Aðgerðir stéttarfélaganna fylgja í öllu forskrift gerræðislegrar vinnumálalöggjafar borgarastéttarinnar. Höfuðmarkmið ASÍ-broddanna er að forða "atvinnuvegunum frá tjóni".

Hér er aðeins stiklað á stóru, en lesendum er bent á Baráttuleið alþýðunnar og fleira útgáfuefni EIK(m-l) til að kynnast birtingarmyndum stéttasamvinnunnar. Verði hún brotin á bak aftur í verkalýðshreyfingunni er mikilvægum áfanga náð í baráttu verkafólks fyrir bættum kjörum.

GERUM VERKALÝÐSFELÖGIN AÐ RAUNVERULEGUM BARÁTTUTÆKJUM!




I hvert einasta sinn sem einhver hreyfir sig til að berjast fyrir bættum kjörum án þess að bíða eftir ASÍ verður allt vitlaust.

Atvinnurekendur hrópa á þjóðhagsstofnun og hagfræðingana, ríkisvaldið læsir öllum dyrum og svo er fundið út að kjarabætur séu ómögulegar. Síaukinn gróði peningamanna og alls kyns vitleysiseyðsla ríkisins sýna allt annað: Það eru til nógir peningar handa verkafólki. Það þarf bara að berja þá úr yfirstéttinni.

Svo kastar fyrst tólfunum þegar þeir sem reyna að rétta hlut sinn eru kallaðir til ábyrgðar fyrir vinnustöðvun og aðgerðir þeirra kallaðar ólöglegar.

Þau lög sem banna baráttu fyr fyrir nauðþurftum eru bölvuð ólög og hananú! Og það fólk eins og hjúkrunarfræðingar eða mjólkurbúðakonur, sem rísa upp eru vitrari en við hin. Það er ríkið og atvinnurekendurnir sem bera ábyrgðina vegna þess að þeir halda fólki fyrir neðan öll venjuleg mörk.

Svo er það hin hliðin.

Hvað hafa svo þessir háu herrar í ASÍ og BSRB gert fyrir baráttufólkið?

Ekkert.

Þeir þegja þunnu hljóði, apa sönginn um"greiðslugetu þjóðarbúsins" eftir Vinnuveitendasambandinu og nota blöðin sín til að ráðast á þetta fólk.

Sá sem vinnur með óvininum er landráðamaður - er stundum sagt.

Ef ASÍ-forystan sniðgengur alla baráttu og BSRB styður ekki hjúkrunarfræðinga þá tilheyra þessir menn ekki okkur.

Skrítið hve margir hafa ekki komið auga á þetta.

Að endingu vil ég þakka VERKALÝÐSBLAÐINU fyrir skrif þess um mjólkurbúðamálið og baráttu hjúkrunarfræðinga - við eigum þó eitt málgagn.

Lesandi í Vogunum.

# Vagnstjórar

frh.af bls.1

persónulega að fá ekki að taka mér kauplaust frí í ár vegna heilsubrests, en ég hef átt við veikindi í baki að stríða lengi. Þess vegna vildi ég skipta um starf í eitt ár, en vagnstjórastarfinu fylgir t.d. mikill hristingur, sem er óhollur bakveikum. Ég hef vottorð frá heimilislækni þar sem hann mælir með nokkra mánaða fríi. Beiðni minni um kauplausa ársfríið hefur verið hafnað á þeirri forsendu að það muni skapa fordæmi. Þetta eru furðuleg rök á sama tíma sem alltof margir sækja um störf hjá SVR. Það er greinilegt að það á að hegna mér fyrir að standa framarlega í baráttu okkar bílstjóra. Líksegast vonast forstjórinn eftir því að ég neyðist til að segja starfinu lausu.

- Hvernig taka starfsbræður þínir þessum neikvæðu undirtektum við beiðni þinni?

- Þeir styðja mig eindregið og líka vaktformenn og trúnaðarmenn eru undrandi á þessum viðbrögðum.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ sendir Sigurði stuðningskveðjur. Það er afar mikilvægt þegar ráðist er á baráttufólk að allir samstarfsmenn standi saman sem einn maður til að fá kröfum sínum framgengt gagnvart atvinnurekendum. Á hinum Norðurlöndunum hefur á mörgum vinnustöðunum verið háð árangursrík barátta gegn árásum á einstaka starfsmenn.

# Baráttusinnar

frh.af bls.1

6. Gegn fyrirhuguðum breytingum á vinnulöggjöfinni!
7. Gegn auknum skattaálögum á alþýðuheimilin - burt með skattafrumvarpið!
8. Dagvistarrými fyrir öll börn!
9. Fulla kauptryggingu frystihúsakvenna!
10. Ísland úr NATO - herinn burt!
11. Gegn yfirgangi og stríðshættu risaveldanna - Bandaríkjanna og Sovétríkjanna!
12. Gegn allri rányrkju - gegn stóriðju- og landssölustefnu ríkisvaldsins!
13. Enga samninga um fiskveiðiheimildir!
14. Fullt jafnrétti til náms - gegn okurlánum!
15. Gegn húsaleiguokri - tryggjum réttindi leigjenda!
16. Styðjum þjóðfrelsisbaráttu kúgaðrar alþýðu!

Komi fram óskir frá einstaklingum eða hópum um að einhverjum kröfum verði bætt við grundvöll Samfylkingarinnar, verður að sjálfsögðu orðið við þeim, svo framarlega sem þær brjóta ekki í bága við mótaða stefnu hans.

<u>Hvað er Samfylkingin 1. maí?</u>

Samfylking 1. maí er samfylking einstaklinga, en ekki flokka eða samtaka. Öllum þeim einstaklingum sem samþykkja grundvöll hennar er velkomið að taka þátt í undirbúningnum. Þeim einstaklingum sem starfa að undirbúningi 1. maí-aðgerðanna er það sammerkt, að þeir eru harðir andstæðingar stéttasamvinnunnar í verkalýðshreyfingunni og vilja berjast stéttabaráttu - sameina verkalýðsstéttina í baráttu gegn fjandmönnunum, atvinnurekendum og erindrekum þeirra í verkalýðshreyfingunni, ASÍ-forystunni, og ríkisvaldinu. Þessi er meginástæðan fyrir því að baráttusinnar standa að eigin aðgerðum á baráttudegi verkalýðsins í stað þess að taka þátt í skrautsýningu verkalýðsforystunnar á "hátíðisdegi verkalýðsins".

En þetta fólk vill líka að baráttan lúti hagsmunum fjöldans og er andstætt allri byltingarrómantík samtaka eins og Fylkingarinnar og svokallaðs "Kommúnistaflokks Íslands" Þess vegna hefur það valið þann kostinn að skipuleggja sjálfstæðar aðgerðir, en taka ekki þátt í "Baráttueiningu 1. maí" ("KFÍ") eða "Rauðri verkalýðseiningu" (Fylkingin og hluti verkalýðsforystunnar). En þó svo að aðstandendur Samfylkingar 1. maí 1977 hafni samstarfi við áðurgreind samtök, kemur það ekki í veg fyrir samstarf við <u>einstaklinga</u> úr röðum fyrrnefndra hópa, svo fremi að þeir samþykki grundvöll samfylkingarinnar.

Að lokum vilja aðstandendur <u>Samfylkingar 1. maí 1977</u> hvetja fólk til að taka þátt í 1. maí-fundinum okkar og leggja þar með sinn skerf af mörkum til að gera 1. maí að baráttudegi verkalýðsins á nýja leik.




# Kommúnistaflokkur Bandaríkjanna (m-l)

Um þessar mundir er stofnaður í Bandaríkjunum Kommúnistaflokkur Bandaríkjanna marxlenínistar undir forystu October League (m-l), bróðurfélagsskapar EIK(m-l).

Miðstjórn EIK(m-l) sendi stofnþinginu kveðju. Þar segir að ísl. kommúnistar sendi hlýjar kveðjur til hins nýja marx-lenínska kommúnistaflokks og allra byltingarsinna. Að lokum er þess getið að EIK(m-l) hafi haft bróðurleg samskipti við bandaríska marx-lenínista og látin er í ljós ósk um að þau megi enn dafna þegar hinn nýi flokkur lítur dagsins ljós.

# Nýjar bækur frá Október forlaginu

Október-bókabúðin, Laugavegi 178, II. hæð, í Reykjavík er opin sem hér segir (síminn er 8 42 10):

| | |
|---|---|
| Miðvikudaga | kl. 4-7 |
| Föstudaga | kl. 5-7 |
| Laugardaga | kl. 2-4 |

<u>Mikilvægar bækur</u>

Eftirtaldar bækur eru nýkomnar frá norska Október-forlaginu og fást í Október-búðinni á Laugavegi:

Josef Stalin: Spörsmål i leninismen; Streik, om ökonomisk og politisk kamp; Reis kampen blant arbeiderkvinnene; Revolusjoner opposisjon i Sovjet; Enver Hoxha: Albanias kommunister i kamp mot Khrusjtjovsrevisionismen; Per Sivle: Streik; Hvordan stålet ble herdet; Vömmölmusikken; Skrifta på veggen; Kapitlet som ble vekk; Jenny har fått sparken.

Lítið inn í Október-búðina!

Í þetta sinn vill bókabúðin vekja sérstaka athygli á tveimur ritum sem þar fást: BARÁTTULEIÐ ALÞÝÐUNNAR - stefnuskrá EIK(m-l). Bókin er 200 bls. að stærð og kostar kr. 1.500. Hún er ómissandi leiðarvísir í faglegri og pólitískri baráttu verkalýðs og öllum sem vilja fræðast um innviði ísl. auðvaldsþjóðfélags og heimsástandsins yfirleitt.

Þá er vakin athygli á fjölritinu <u>Barátta gegn endurskoðunarstefnunni,</u> 1. og 2. tbl. 1. árgangs 1977. Hér er um að ræða uppgjör nokkurra fyrrum félaga í svokölluðum "Kommúnistaflokki Íslands" við "framdar villur, afhjúpun á megineinkennum "KFÍ/ML" og stéttgreininguna", eins og segir í formála 2. tbl. Rit þessi eru nauðsyn öllum þeim er kynnast vilja raunverulegu starfi Kristjáns klíku Guðlaugssonar og ötulu starfi hennar við að koma óorði á sósíalismann. Verð ritanna er kr. 100 pr. eintak.

# Söfnum hundrað áskrifendum og hundrað þúsund krónum fyrir 1. september




Söfnunin er nú komin vel á veg, sérstaklega hefur fjársöfnunin tekið mikinn fjörkipp. Áskrifendasöfnunin hefur hins vegar ekki gengið nægilega vel. Lausasalan á síðasta tölublaði gekk afar vel og hefur farið jafnt og þétt vaxandi síðustu mánuði. Félagar og stuðningsmenn verða því að leggja mun meira kapp á að safna áskrifendum, því að á þeim byggist fyrst og fremst traustur fjárhagsgrundvöllur blaðsins. GERIST ÁSKRIFENDUR VERKALÝÐSBLAÐSINS!

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn EIK(m-l)

Ábyrgðarmaður: Albert Einarsson

LAUGAVEGI 178, 2. HÆÐ
POSTHÓLF 5186, REYKJAVÍK
SÍMI 84210 - 35904

Gerist áskrifendur

Stuðningsáskrift: kr. 2500 Ársáskrift: kr. 1500
Hálfársáskrift: kr. 800

Áskrift greiðist á gíró 12200

# Ný verkfalls tilhögun nauðsynleg



ALLSHERJARVERKFÖLL UNDANFARIN ÁR HAFA REYNST GAGNLÍTIL BARÁTTU AÐFERÐ FYRIR VERKALÝÐINN. ÞAU HAFA VERIÐ BOÐUÐ MEÐ LÖNGUM FYRIRVARA OG ATVINNUREKENDUR HAFA GETAÐ BÚIÐ SIG RÆKILEGA UNDIR ÞAU. VERKFÖLLIN HAFA ÞVÍ OFT Á TÍÐUM BITNAÐ MEST Á VERKAFÓLKINU SJÁLFU OG DREPIÐ NIÐUR BARÁTTUKJARK ÞESS.

Í 1. MAÍ-ÁVARPI EIK(m-l) ER BENT Á LEIÐ KEÐJUVERKFALLANNA SEM VÆNLEGA LEIÐ TIL SIGURS, EF VERKALÝÐURINN BERST SAMEINAÐUR Á GRUNDVELLI STÉTTABARÁTTUNNAR. BARÁTTA GEGN STÉTTASAMVINNU ASÍ ER FORSENDA FYRIR SIGRI Í KJARABARÁTTUNNI!

# 1. MAÍ ÁVARP EIK(m-l)

1. maí er mörgum gjarnt að líta til baka yfir sögu verkalýðshreyfingarinnar. Öllum má ljóst vera, að hún má muna sinn fífil fegurri; í áratugi hefur baráttustaða og lífskjör verkafólks ekki verið verri. Samtökum verkafólks hefur hnignað sífellt meir og meir: stærsti hluti verkalýðsforystunnar er uppkeyptur af auðvaldinu, hún á sæti í stjórnum fyrirtækja og embættiskerfi. Stéttasamvinnuforystan, ásamt flokkum hennar, Alþýðubandalaginu og Alþýðuflokknum, er stærsta hindrunin í vegi faglegrar og pólitískrar baráttu verkalýðs. Verkafólk verður að heyja markvissa og vægðarlausa baráttu gegn stéttasamvinnunni og þar kemur engin sáttfýsi til greina.

Horfurnar á kjarabótum í yfirstandandi kjarasamningum eru slæmar. Kemur þar margt til.

1. ASÍ-forystunni hefur tekist að ná undir sig samningsvaldi flestra stéttarfélaga, án þess að það hafi verið borið undir félagsmenn hinna einstöku stéttarfélaga.

2. Verkfallsstaðan er slæm á þessum tíma. Vetrarvertíð er að ljúka og atvinnumöguleikar dragast saman, auk þess sem mikill fjöldi skólafólks kemur út á vinnumarkaðinn.

3. Vinnu"veitenda"sambandið og Vinnumálasamband Samvinnufélaganna sjá einmitt þessa stöðu og hafna öllum kauphækkunum, krefjast lengingar vinnuvikunnar og skertra veikindabóta. Kaup-"hækkanir" eigi að koma í formi hliðarráðstafana af hálfu ríkisvaldsins.

Verkafólk verður að bregðast rétt við þessum aðstæðum. Samningar í höndum ASÍ-forkólfanna þýða áframhaldandi hnignun kaupmáttar. Eftir samningana 1974 sagði ASÍ-forystan að þetta væru verðbólgusamningar. 1975 sagði Björn Jónsson að fólk yrði að varast að taka of stóran bita af kökunni aftur, þegar um það eitt var að ræða að vinna aftur þann kaupmátt sem tekinn hafði verið af verkafólki. Því verður að krefjast þess að það verði þegar í stað borið undir atkvæði í verkalýðsfélögunum, hvort samningsumboðið eigi að haldast hjá hverju félagi, eins og lög mæla fyrir um, eða hvort ASÍ á að fá það í hendur. Þetta hefur enn ekki verið gert.

Fullar vísitölubætur á laun!

Í öðru lagi má verkafólk ekki ljá máls á lægri kaupkröfu en 110 þús. kr. á mánuði fyrir dagvinnu. (100 þús. kr. krafan í nóvember þýðir um 110 þús. nú).

Önnur ófrávíkjanleg krafa er fullar vísitölubætur á laun, sem verði greiddar mánaðarlega miðað við hækkun framfærslukostnaðar. Til að ná þessum markmiðum, verður að finna leið sem veldur verkafólki sem minnstum búsifjum, en kemur harkalega niður á atvinnurekendum. Þveröfug áhrif hafa haft þau allsherjarverkföll sem verið hafa undanfarin ár. Atvinnurekendum hefur verið tilkynnt um þau með góðum fyrirvara, þannig að þeir hafa getað undirbúið sig og yfirleitt hafa svo allir lagt niður vinnu samtímis.

Svokölluð keðjuverkföll eru augljóslega árangursríkari, auk þess sem þau koma ekki nándar nærri eins hart niður á verkafólki og allsherjarverkföllin. Í grófum dráttum má segja að framkvæmd þeirra sé eftirfarandi:

Aðeins fáir starfshópar leggja niður vinnu í einu, helst þeir sem stöðva sem allra mest af framleiðslunni. Eftir nokkurn tíma geta aðrir starfshópar farið í verkfall, hinir hætt, en þó þannig að stöðvun framleiðslunnar haldi að mestu áfram. Þegar svona stendur, er mikilvægt að sá hluti verkalýðs, sem ekki er í verkfalli, styðji hinn hlutann efnahagslega og siðferðilega.

En þess er vert að minnast, að verkalýðsforystan gengst aldrei fyrir þessari baráttuaðferð. Vegna efnahagslegra og pólitískra tengsla við auðstéttina og ríkisvald hennar, hafa stéttasamvinnupáfarnir ósköp takmarkaðan áhuga á því að verkafólk nái umtalsverðum árangri í baráttu sinni.

Gegn öllum fiskveiðisamningum!

Annað höfuðbaráttumál verkalýðs og annarrar alþýðu, er verndun efnahags-og pólitísks sjálfstæðis þjóðarinnar. Hefur landhelgisbaráttuna þar borið hæst og höfuðkjörorð hennar hafa verið: Gegn allri rányrkju! Vegna innbyrðis átaka innan Efnahagsbandalags Evrópu (EBE) hefur verið fremur hljótt um kröfur af þess hálfu til fiskveiðiheimilda hér. En nú er loks komin hreyfing á málið á ný og væntanlegur sendimaður bandalagsins hingað til lands. Enginn skyldi efa samningsvilja ísl. einokunarauðvaldsins við EBE. Það er reiðubúið til þess að selja rétt til rányrkju á Íslandsmiðum, gegn viðskiptaívilnunum í EBE-löndunum. Auk þess sem brýnt er að herða að mun baráttu gegn rányrkju af völdum ísl. útgerðarjöfra, ber brýna nauðsyn til að herða baráttuna gegn samningum um fiskveiðiheimildir til handa erlendum aðilum.

Byggjum kommúnistaflokk!

En hverjar eru orsakir þessa slæma ástands í hreyfingu verkalýðsins? Þarf það að vera svona og hefur svo verið undanfarna áratugi? Orsakanna er fyrst og fremst að leita til svika hinnar pólitísku og faglegu forystu við hagsmuni vinnandi alþýðu. Á árunum 1930-38 gegndi Kommúnistaflokkur Íslands þessu forystuhlutverki og starfaði með hagsmuni verkalýðs að leiðarljósi í öllum höfuðatriðum. En menn sem lögðu meira kapp á að beina baráttu verkalýðsins í farveg þingsalakarpsins náðu yfirhöndinni í flokknum og tókst að fá flokkinn lagðan niður 1938! Á rústum hans var Sósíalistaflokkurinn stofnaður og síðar Alþýðubandalagið og nú stefnir allt að því að það sameinist Alþýðuflokknum á einn eða annan hátt. Svo glæst er saga stéttasamvinnunnar á Íslandi síðustu áratugi!

Einingarsamtök kommúnista (m-l) hafa sett sér það markmið að taka upp merki það sem féll með Kommúnistaflokknum gamla 1938. Þetta starf er unnið í andstöðu við alla aðra flokka og samtök á Íslandi. Baráttan fyrir uppbyggingu forystuaflsins - raunverulegs verkalýðsflokks - skiptir höfuðmáli í dag, enda er þörfin á forystuaflinu brýn, jafn slæmt og faglegt og pólitískt ástand í verkalýðshreyfingunni nú er.

Verkafólk, verkalýðssinnar! Takið þátt í uppbyggingarstarfi Einingarsamtaka kommúnista (m-l). Byggjum kommúnistaflokk!

# Álverið í Straumsvík
# Öryggismál í ólestri og atvinnusjúkdómar

Undanfarið hefur verið mikil umræða um mengun frá álverinu, öryggismál og hættuna á atvinnusjúkdómum. Það er engin tilviljun að þessi umræða fer af stað í dag: Verkamenn í álverinu hafa háð harða baráttu á þessum sviðum. Nú er um að gera að fylgja þessari umræðu á eftir með kröfum um úrbætur strax! VERKALÝÐSBLAÐIÐ hafði samband við verkamenn í álverinu, og byggir eftirfarandi grein á upplýsingum sem þeir létu í té.

Mengun og atvinnusjúkdómar

Það er ekkert leyndarmál að nokkur fjöldi verkamanna hjá álverinu hefur beðið varanlegt tjón á heilsu sinni af vinnu þar. Læknar og yfirvöld hafa þráast við að viðurkenna að svo sé, heldur sett fram þá kostulegu kenningu að til séu tvær manngerðir: þeir sem þola að vinna í álverum, og þeir sem þola það ekki! Verkamenn vilja skilgreina atvinnusjúkdóm þannig, að ef rekja megi sjúkdóm beint eða óbeint til atvinnu manna, hvort sem er til eðlis vinnunnar, tilhögunar hennar eða aðbúnaðar á vinnustað, sé það atvinnusjúkdómur.

Margir, sem samkvæmt læknisskoðun hjá ISAL voru stálhraustir er þeir hófu störf, hafa hætt vegna öndunarkvilla, magnleysis og slens sem þeir telja að rekja megi til mengunarinnar. Álverið hefur virt kröfu verkamanna um betri aðbúnað að engu, en "lofað" sér vinveittu ríkisvaldi "að hraða úrbótum eftir megni". Verkamenn hjá ISAL hafa oft hótað vinnustöðvunum og öðrum aðgerðum ef ekki verði settar upp fullnægjandi mengunarvarnir, og það er að renna upp fyrir mönnum að ástæða



þess að fyrirtækið þverskallast við er sú, að markmiðið er að ná hámarksgróða og það krefst þess að heilsu verkamanna er fórnað frekar en að koma upp kostnaðarsömum mengunarvörnum.

Öryggismál

Álverinu er mjög hampað á opinberum vettvangi vegna fyrirbyggjandi aðgerða til að koma í veg fyrir slys. Þar er talað um "öryggisfulltrúa, öryggiskeppni,og öryggisnámskeið" og síðan eru svo dregnar fram tölur sem "sanna" að slysatíðnin er ekki mikil miðað við unnar vinnustundir. En "öryggis"blaðrið er bara til að kasta ryki í augu fólks. Staðreyndin er sú, að tækjabúnaður álversins er lélegur og vinnuaðstaða oft bæði erfið og hættuleg. Bremsulausir lyftarar, ljóslausar dráttarvélar, tæki sem leka olíu og eru á annan hátt í hálfgerðum lamasessi er sá raunveruleiki sem verkamenn í álverinu búa við. Vinnan í kerskála og steypuskála felst í því að meðhöndla bráðinn málm, og það má lítið bera út af svo að liggi við stórslysi. Þegar ofaná lélegan tækjaskort bætist myrkur, ryk og bleyta á gólfum er ljóst að allt tal um "öryggismál í góðu lagi" er bull. Enda er það svo, að slysatíðnin er mjög há. Þær tölur sem álverið hefur eru miðaðar við alla starfsmenn fyrirtækisins, þ.á.m. yfirmenn sem alls ekki vinna framleiðslustörf heldur gera aldrei neitt hættulegra en að ydda blýanta, og auk þess taka skýrslur álversins aðeins til slysa sem valda 3ja daga fjarveru eða meira.

Næstum öll slys verða hjá þeim sem vinna í kerskála, steypuskála, kersmiðju og skautsmiðju, og væri tekin úttekt á slysum á þessum vinnustöðum miðað við unnar vinnustundir yrði myndin dálítið öðru vísi en sú sem opinberlega er básúnuð í dag.

Komandi samningar - úrbætur

Það hefur verið föst venja hjá álverinu að reka upp ramakvein fyrir samninga og tala um hve sölutregða á áli sé mikil og hve greiðslustaða fyrirtækisins sé slæm. Enda er það svo að samkvæmt opinberum tölum hefur álverið næstum öll ár frá því það hóf starfssemi sína verið rekið með tapi. Þó var búist við einhverjum gróða á síðasta ári, en það getur verið vegna þess að það var hlaupár, og því hafi náðst sú framleiðsla sem réði baggamuninn! Allavega er það hlálegt að fyrirtæki sem hefur tugmilljónaveltu í framleiðslu á sólarhring skuli geta gefið upp gróða upp á lo milljónir eins og álverið gerði árið 1974. En markmið álversins með harmtölunum er tvíþætt: Annarsvegar að losna við að greiða hærra rafmagnsverð og hinsvegar að losna við að þurfa að setja upp kostnaðarsaman öryggisbúnað og bæta kjör starfsmanna. 1974, þegar gróði álversins var lo milljónir, var áætlaður uppsetningarkostnaður fullkominna hreinsitækja um 18oo miljónir króna. Með sama gróða tæki það 18o ár að borga hreinsitækin!

Úrbætur á vinnuaðstöðu hafa alltaf af hálfu álversins verið teknar upp á samningafundum þegar ræða hefur átt kaup og kjör. Þannig hafa öryggismál verið gerð að samningaatriði. Þetta er öfug þróun sem verkamenn í álverinu eru staðráðnir í að snúa við. Í komandi samningum ætla þeir að leggja fram kröfu um styttingu vinnuvikunnar. Þá ætla þeir að krefjast verulegrar hækkunar launa og vaktaálags. Vaktavinnumenn vinna 75% sinnar vinnu í nætur- og helgidagavinnu, en fyrir utan 36.2 % vaktaálag og ferðapeninga hafa þeir aðeins um 95.ooo kr. í mánaðarlaun. Þrátt fyrir "lélega afkomu atvinnuveganna" og "hallrekstur" álversins eru verkamenn hjá ISAL ákveðnir í að sækja kröfur sínar til sigurs. "Verkalýðsstéttin hefur beðið alltof marga ósigra síðustu ár og áratugi" sögðu heimildamenn VERKALÝÐSBLAÐSINS í álverinu "það er kominn tími til að læra að sigra".

